# Tvisvar Sjøfaldt
# Missiraskipta = Offur,
edur Fjórtán
# Heilagar Hugleidíngar,
sem lesast kunna
á fyrstu Sjø døgum
## Sumars og Vetrar.

---

Til gudrækilegar brúkunar,
samanskrifadar af

Síra. Jóni Gudmundssyni,
selnast Presti i Reykjadal.

---

Selsast óinnbundnar á Prentpappir 40 ß. i Silfur = Mynt.

---

Videyar Klaustri, 1837.
Prentadar á Forlag Sekret. O. M. Stephensens,
af Bókþryckjara Helga Helgasyni.



# Sjö Hugleiðingar,

sem lesast kunna í Inngaungu Sumars.

## Inngánguriun.

Gen. 1. v. 16. og Cap. 8. v. 22.

Og Gud gjørdi þau tvø stóru ljós, þad stærra ljósid ad stjórna deginum, og þad minna ljós ad stjórna nóttunni og stjørnurnar. Svo lengi sem jørdin varir, skal sád og kornskéra, frost og hiti, Sumar og Vetur, dagur og nótt ecki þverra.

Lof og heidur, prís og æra sé eilífum og ódaudlegum Gudi, Fødur, Syni og heiløgum Anda, sem af einskjærri fødurlegri náð og miskun sinni hefur lidid oss undir sinni alvísu og gjædskuríku stjórnan inn til nálægs tíma, og géfur ad vér med gledi og føgnudi yfir hans nádarfullri forsjón og fyrirhyggju, fáum ad njóta þeirrar unadsemdar, ad sjá enn þá yfir oss upprenna eina fagurt lýsandi og blessada Sumar-sól, á þessum fyrsta Sumardags morgni; og þar ómetanlegar velgjørdir Drottins, bædi þær, sem hann hefur veitt oss á umlidnum

Vetri, og þær sem hann hefur tilbúið og fyrirhugað að veita oss á eptirkomandi Sumar-tíma, eiga ecki með vanþacklætisfullri þagmælsku að medtakast, því þyki mér ecki einasta lystilegt, heldur og einninn gagnsamlegt, já, ómissandi að láta med þeirri ný upprunnu Sumar-sól, upprenna í vorum hjørtum heilagar hugleidíngar til þacklætis fyrir Drottins umlidnar ástríkar velgjørdir, og til þess að uppørfa þess gjæðsturíka gjafarans elskufulla Føðurs hjarta að framhalda því sama vid oss; sømuleidis til þess, að oss mættu þeir eptirkomandi tímarnir, því héldur blessast og farsælast, sem vér uppbyrjum þá med meiri gudrækni og þacklæti, til vors Drottins og Skapara. Skulu því í nafni Drottins vorar heilagar hugleidíngar festa og grúndvalla sig helst á þeim ordum textans er Sumrinu tilhéyra, svó sem þessum: Sumar, sól, dagur, ljós, hiti, grøs, regn.

„O þú blessada sól þess eilífa Sumars, „upprenn þú nú sjálfur yfir sálum vórum í þínu „ordi, og géf að þessi ræda verdi þér ein þægileg „Sumar-gjøf; og eins og sólin dregur að sér „vøkvann af jørdunni, svo drag til þín frá vor- „um hjørtum ydrunarfullann bænar og þacklætis „vøkva, bænheyr það fyrir þíns blessada nafns „sakir, Amen".

# 1. Hugleiding,

## af Sumrinu.

Lúc. 21.

**Skodid fíkju-tréd, og øll ønnur tré, nær þeirra aldin tekur út ad springa, þá vitid, ad Sumarid er nálægt.**

Pád ný upprunna Sumar, skyldi uppvekja í ofs nýar hugarins hræríngar til andaktar og gudhrædslu. Blessadur sé Drottinn Zebaoth, hver alleina gjørir furdanlega hluti! Pad held eg víst, ad enginn hafi aflifad hryggilegri Vetur enn réttlætis prédikarinn **Nói**, og hann held eg fegnastann hafa ordid Sumrinu. Hann var um Veturinn inniluktur í Ørkinni, vitandi ei neitt hvert hrekjast mundi, øllum kunníngum og ástvinum, utann sjø, sviptur, horfandi á pad hrædilega straff Drottins yfir allri verøldu, flækjandist innan um bylgjur og boda þess ógnarlega synda-flóds í stormum og strídvidrum. Pad var hryggilegur Vetur, *Vetur eymdar, harms og freistíngar*, Gen. 7. v. 7. En frelsadur og útgeinginn af Ørkinni, byrjadi hann med stórri hugar-kjæti eitt gledilegt Sumar. Pess vegna uppbyggdi hann Drottni í Sumar-gjøf, eitt þakklætis-altari, offrandi honum audmjúkri lofgjørd. Byrjum nú med sama hætti þetta blessada Sumar i Jesú nafni! Vér høfum ad sønnu ecki á allar sídur verid umgyrdtir med hørmúnganna flódi, edur aldeilis verid innilukter í ørk ángistarinnar, edur harmqvælanna, samt høfum vér þó ecki allir verid

aldeilis án alls mótlætis, svo ad kannské sumir af oss hafi þó haft orsök ad klaga og qvarta med Davíd: Æ Drottinn! þú mettar oss med harma-braudi, Ps. 80. v. 6. En lofadur sé gódur Gud, bædi fyrir blídt og strídt, ad hann temur vort gjálífa hold med einum og ødrum mótblæstri; en frá hvad mørgum raunum, skada, freistingum og mótlætingum hefur Drottins milda hønd frelsad oss? þad veit hann sjálfur best, þad fáum vér aldrei fullþackad; því vér meigum nú med Nóa sigri hrósa yfir øllu Vetrarins andstreimi, og gladir taka á móti Sumarsins blessadri blídu fyrir nád Drottins; því er skyldt ad vér med Nóa uppbyggjum eitt þackletis-altari. Af fjórum hálfum hefur Drottins nádar-straumur yfir oss flotid. Af Himninum, þadan eru þær andlegu gáfurnar. Af Loptinu, þadan er temprun vedurattunnar. Af Jørdunni, af hennar ávøxtum høfum vér og vorar skepnur lifad; og af Sjónum edur Vøtnunum. Fjøgur ølturu skulum vér því uppbyggja Drottni, og á þeim offra vorum Sumar-gjøfum til hans.

1.) Hid fyrsta heitir Ydrunar-altari. Látum oss reka minni til med hvad margføldu móti vér høfum á umlidnum vetri Gud styggdann, og brotid á móti hans løgmáli bædi vitanlega og óvitanlega. Hver sem vildi sérilagi hugleida hvad þúnglega, hvad opt, og med hvad mørgu móti, hann hefdi Gud styggdann um einn dag, á hverjum hinn Réttláti fellur sjøsinnum, hvad opt þá hinn athugalausi, hvad opt hinn rángláti um heilt missiri? ó! vertu oss nádugur lifandi Gud, og hefn þú ecki á oss, á eptirkomandi Sumar-tíma þess sem vér høfum þig med

móđgađ á umlíđnum Petri. Vér játum vor afbrot, og drøgum ecki dulur á vorn misgjørníng. Þú gafst ofs hjarta til ađ elska þig, en vér snérum vorum kjærleika til heimsins holdlegra gyrnda, og hégómlegra hluta. Það er sú mesta hjartans raun, þegar sá sem eg vil elska foragtar edur hatar mig; þetta hefur þú þó, ó mildi Faðir! mátt af ofs reyna; þú hefur bođiđ ofs fađminn, en vér høfum snúið við þér bakinu; þú gafst ofs túngu til ađ lofa þig, og tala um þínar dásemdir, en hversu opt høfum vér það forsómađ? en aptur á móti ílla og ógudlega talađ, skammarleg orđ og fíflslegt hjal, sem kristnum sómir ecki. Þú gafst ofs hendurnar til ađ gjøra það sem gott var, þér til dýrđar, en ofs og náúnganum til þarfa; en, ó þú réttláti dómari! hvørsu opt hafa þær hreist sig til ađ gjøra hiđ ílla, því hinn sama af stađ komiđ, en veriđ látar á hiđ góđa. Sama er ađ segja um alla adra vora limi og skilníngar-vit. O! hvørsu margføld vanbrúkun á Drottins velgjørníngum? vér skømmumst vor ađ uppreikna vora klæki, vér blygđumst ađ framtelja vorar íllgjørđir; svo eru þær viđurstyggilegar! vér orkum ei ađ samanreikna þær, því þær eru fleiri enn sandur á sjáfar-strøndu, edur hárin á høfđi voru. Og hvađ skulum vér hér til segja? skulum vér þá í syndunum blífa svo ađ náđin yfirgnæfi? fjærri sé því; vér heyrum eitt hróp, og það er þíns Sonar raust, ó Herra Guđ! hann kallar og segir: Komiđ til mín allir þér sem erfidiđ og þúnga eruđ hjáđir, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Item, Hvern þann sem til mín kémur, skal eg ecki burtreka, Jóh. 7. Já gjarn=

an og fegnir komum vér, Herra Jesú! vér komum bljúgir og klökvir, ángrádir og hrelldir, undirþryktir af þúnga syndanna, og hræddir fyrir reidi þess, sem á stólnum situr, og fyrir reidi lambsins; vér leggjum vora játuníng fyrir þínar fætur, og segjum: **Fadir! vér höfum syndgad í himininn, og fyrir þér, og erum ecki verdugir ad kallast þín börn, Lúc. 15.** Því beigjum vér nú kné vorra hjartna, og bidjum þig um nád: **Gud! vertu oss syndugum líknsamur; miskuna þú oss.** O Gud Fadir miskunsemdanna, kasta oss ecki frá þínu augliti! því syndugri sem vér erum, því stærri er þín nád ad þú fyrirgéfir oss; en viljir þú oss ei álíta, þá álíttu þó þinn elskulegann Son; er hann ecki sá sem betalad hefur vora skuld, og lidid qvöl og dauda fyrir oss, Es. 53. Heyrdu hann nú á himnum fyrir oss bidjandi, þú sem bænheyrdir hann á krossinum andvarpandi; hans undir eru vor lækníssdómur, vort hæli og frelsis-stadur; í þær viljum vér á þessum fyrsta Sumardeigi innflýja, og í þeim á öllu þessu Sumri luktir vera fyrir trúna; þadan skal oss hverki draga Djöfullinn né lögmálsins bölvan. Jesús er vor Endurlausnari, honum einum viljum vér áhánga; ecki muntú, ó líknsami Fadir! úr hans undum undir straffid oss naudunga draga. Vér hyggum oss vid þína nád, og af nádinni framkomna þíns Sonar forþénustu, af hans forþénustu framkomna nádar-prédikun Evangelií, og af Evangelió styrkist vor trú og von um fyrirgéfníng syndanna af þinni hálfu, oss aumum og vesælum til handa. Þetta er sá ferþætti streingur, med hverjum vér ætlum oss vid Jesúm ad festa og

binda, svo við honum aldrei sleppum. Leita þú sjálfur að oss, ó Jesú! þínum tíndu sauðum, því þú ert sendur til fortapaðra sauða af húsi Israels. Vér erum af Israels húsi, ef ekki að fæðíngar-réttinum, þá þó samt að óska-barna-réttinum, leitaðu því að því tínda, og ber heim það tapaða. Vér mænum sem aðrir rakkar uppá þitt miskunar-borð, lát falla ofan til vor ef ekki heilt brauð, þá þó mola þinnar miskunar, og seig til vor: verði yckur sem þið viljið, verið hughraust mín børn, yckar syndir eru yckur fyrirgéfnar. Eg hefi yckar synd í burttekið, aldrei skal eg yckar synda að eilífu minnast, með eilífri náð og miskun vil eg yckur miskuna. O vor Guð! himneski Faðir miskunsemðanna, og mikillrar þolinmæði; vertú oss øllum náðugur og miskunsamur. O Jesú Kristi Guðs Son! þú sem vaktir úngmennið af dauða með einu orði, Lúc 17. Uppvek oss og endurlífga dauða í syndunum. Vísa oss nú á veg náðarinnar undir eins og vér gaungum á veg nýrra tímanna umskipta, og seig til vor: Farið allir í friði, minn frið géf eg yður, minn frið læt eg hjá yður; géf oss øllum þinn frið. O þú heilagi Andi, hjálpin trú, huggarinn allra besti! Innsígla þú í vorum hjørtum og samvitskum þessa náð, um syndanna fyrirgéfníng, helga þú vor hjørtu, svo vér verðum hæfilegir til að taka á móti Drottins náðar-velgjørníngum og blessuðum Sumargiøfum, og gjør þessa vora yðranar-fórn ylmandi af jurtum sannrar guðhræðslu, og lifandi trúar, svo hún verði vorum Guði þægileg fyrir Jesúm Kristum.

2.) Uppbyggjum nú í annann máta eitt lofgjörðar-altari eður þakklætis-altari. Æ, hvað margt og mikið hefur þú, Drottinn minn, oss til góða gjört! hvað dýrmætar velgjörðir oss í té látið á umliðnum Vetri, þú sem máttugur ert, og þitt nafn er heilagt! það er ómögulegt upp að reikna, og þó nockur kunni að reikna til einurar summu, hvað mörg sandkorn væru á siófar-ströndinni, hvað mörg grös á jörðunni, og hvað margir dropar í öllum siónum, þá kynni hann þó aldrei að telja hvað margar, eður að meta hvað mikils verðar þínar velgjörðir hafa verið, sem við oss hafa framkomið bæði í andlegann og líkamlegann máta; þú hefur endurnært vorar sálir á þínu blessaða lífsins orði, mettað þær og dryckjað með holdi og blóði þíns elskulega Sonar, upplýst oss með þínum heilaga Anda, og fyrirgéfið oss ótelianlega margar og þúngar syndir; þínir heilögu Englár hafa sett herbúðir í kríngum oss, og alla vora, oss til verndar og forsvars. Þú hefur geymt oss bæði og allt vort í friði, svo vér meigum það játa, að það sem vér afhendtum undir þína geymslu þá Veturinn kom, því svo sem skilar þú oss nú aptur með inngángi Sumarsins, sumu jafngóðu, sumu með ávexti margföldum, og meiri blessan, og ef vér höfum nockuð misst af því þú oss um stund lánaðir, þá hefur þú géfið og munt vísslega géfa oss annað betra. Frá hvað mörgum háskasemdum lífs og sálar hefur þú frelsað oss? Diöfulsins, heimsins og holdsins samt allra vorra óvina vígvélum hefur þú burtsnúið frá oss. Hver vakti yfir oss þá vér sváfum? Þú Israels verndarinn, hvern ecki sifjar.

Hver vøkvadi oss þyrsta? þú brunnur allrar giæd-
sku. Hver saddi oss húngrada? þú sem ert þad
himneska lífsins-braud. Hver klæddi oss nakta?
þú sem géfur þínum bernum mettul réttlætisins og
klædi hiálpræðisins. Hver giætti vor, svo vorar
fætur skrikndu ecki til skada? þú sem ert vegur-
inn, sannleikurinn og lífid. Hver vakti oss, svo
vér urdum ecki brád þess helvítska úlfsins? þú sem
ert sá blessadi hyrdir saudanna. Já, hver um-
múradi oss á allar sídur svo einginn ólucka hefur
oss né nockurt vort fordiarfad? enginn utan þú
alleina, þú eldlegi múr og adskilnadur millum vor
og allra vorra óvina; og hvad vil eg leitast vid
ad upptelja þad, sem aldrei verdur talid? bædi heilsu
og heilbrygdi líkama vorra, góda og glada sam-
vitsku, vellídan vorra ástvina, og yfir allt ad segja,
þá hefur þú, ó, vor gódi Gud! breidt þinn fadm
útyfir oss á allar sídur, á øllum stundum, í øll-
um stødum, yfir oss alla med allri giædsku.
Hvad skulum vér þér nú endurgialda fyrir allt
þad gott, sem þú hefur gjørt oss? Hvad á snaud-
ur fyrir ad géfa? þó vér vildum géfa þér himin
og jørd med øllum þeirra giædum, þá væri þad
þó oflítid, og þar til er þad eigi vort, heldur þitt
eigid. Kálfa vara vorra, lofgjørd og þacklæti,
ættum vér aptur í té ad láta, bædi med hjartanu,
ordunum og verkunum; ordin eru til alls fyrst.
Lofadur og blessadur sértu, eilífi Gud, og himneski
Fadir! fyrir þína vernd og vardveitslu, og nádar-
fulla stjórnan yfir oss, í øllum þínum verkum og
dásemdum. Lofadur og blessadur sértu, Herra
Jesú! helst fyrir þad, ad þú hefur oss endurleyst,

og trúlofad þig ofs í nád og myskunsemi, í rétt-læti og dómí; blefsadur sértu fyrir øll þau líknar-málin, er þú hefur lagt ofs vid þinn himneska Fødur. Lofadur og blefsadur vertu, ó, þú gódi heilagi Andi! fyrir þad þú hefur ofs endurgétid, upplýst og helgad. Háttlofud og blefsud sértu, ó þú dýrdarfulla þrí-eining! fyrir gædi sálarinnar, med hverjum þú hefur hana begáfad, fyrir gædi líkamans, med hverjum þú hefur hann miøg dá-samlega prýddann, fyrir gædi luckunnar og farsældar-innar, med hverjum þú hefur ofs audgad. Fyrir bædi andlegar og líkamlegar ástgjafir, lofi þig allt hvad til er á himni og á jørdu, allt hvad andad fær, lofi Drottinn. Géf ofs nád til ad þacka þér svo í tímanum, ad vér fáum eilíflega ad þacka þér á því himneska dýrdar Sumrinu, Amen.

3.) Þad þridja altari sem vér skulum uppbyggja, er hlýdninnar-altari; þar á skal offrast þad hjarta, sem hefur fullkominn ásetning til ad bæta sitt líferni, og betur ad lifa. Hlýdni er betri enn offur, sagdi Samúel; ef vér viljum vita hvad ómifsandi er, ad offra þefsu offri, þá vitum fyrir víst ad eckert dugir ángur fyrir syndirnar, og aldeilis er trúin daud, nema þar komi til ný hlýdni; en hún er ecki, heldur enn annad gott, í voru valdi. Þefs vegna flýum vér enn á ný til þín, ó þú líknsami gódi Gud! skapa þú í ofs hreint hjarta. Bú þú þetta offur til handa sjálfum þér, krídda þú þad med sætleika þíns ords og Anda, svo þefs ylmur lukti því betur fyrir þér; svo sem þú ert réttlátur til ad straffa og myskunsamur í ad fyrirgéfa, svo ertu og máttugur ad endurnýa. Margt er þad í voru

fari, sem lagfæringar vid þarf, þú veitst öll fylsni syndanna, tilbyrg þú þau, en kasta þeim á bak þér aptur. Vér qvídum fyrir því, Drottinn! ad vér munum enn þá óaýta þá qvittun syndanna, er vér af þinni nád svo opt þegid höfum, med því ad ydka og æfa sömu illgjördir á eptirkomandi Sumri, á hverjum vér höfum þó qvittun feingid, og uppgjöf á þessum degi. O! hvad ódvidurqvæmileg synd er þad, ad burtkasta þvílíkri Sumargjöf, sem er fyrirgéfníng allra undanfarinna synda! Vardveittu oss, ó Gud! frá þvílíkri hrösun, og styrk oss í því góda verkinu. Vér gyrnumst ad geyma þitt lögmál, géfdu oss því þad sinni, sem þig réttilega þecki, þad hjarta, sem þig heitt elski, þann vilja, sem þér fúslega hlýdi, þá túngu, sem þig ydulega lofi, þau augu, sem ydulega upp til þín horfi, þær hendur, sem þér þægileg verk framqvæmi, þær fætur, sem á þínum vegi gángi, þau eyru, sem þitt ord ljúflega og med eptirtekt heyri, þann líkama og þá sál, sem sig flecklausa geymi, frá veröldinni, djöflinum og syndinni, já, þá sál, í hverri engin fordæmíng sé, heldur sé í Kristó Jesú, svo Kristur byggi edur búi í henni fyrir trúna. O! hvad mættum vér daglega dansa og leika af fögnudi, ef vér gjætum þannig lifad, þannig frambrunad vort lífsins skeid, og þannig djöfulinn og alla vora óvini undir fótum trodid. Burt, burt, þér sálnanna svikarar, djöfull og heimur, þagna þú og vert kyrr þú gamli Adam, þú gjálífa hold og blód, vér ætlum nú ad þjóna Drottni trúlega, því vér erum Drottins, en afsegjum ydar þjónustu. Viki nú allar holdsins gyrndir, því vér höf-

um ydran gjørt. Þetta ad gjøra, þad er vor vilji, ó þú mildi Gud! en þad ad fullkomna, þar til legg þú oss lid og krapta. Nú svo sem þitt réttlæti hefur uppørfad hjá oss ydranina, þín miskunsemi trúna, svo lát þitt almætti verka í oss hlýdnina. Þeim réttlátasta, miskunsamasta, og almáttugasta Gudi sé lof og eilíf þackargjørd. Þú Drottinn! létst oss syndirnar þeckja, því þú ert réttlátur, þú fyrirgafst oss þær, því þú ert miskunsamur, og þú endurnýadir oss, því þú ert almáttugur. Í frá uppgaungu sólarinnar allt til hennar nidurgaungu sé lofad nafnid Drottins!

4.) Þad fjórda Fórnar-altarid vort er Bænaraltari; þess er æ meiri þørf því heitara til Drottins ad andvarpa, sem þessi veröld tekur æ meir og meir til horns ad hníga, og því meir sem tíminn lídur, því nálægari erum vér endíng vorra lífdaga. Hver af oss veit, hvørt hann muni aflifa þetta Sumar? er því best ad búa vel um sína hagi. Allt gott hljótum vér til Drottins ad sækja, um allt naudsynlegt eigum vér því hann ad bidja. Þess vegna flýjum vér enn þá á þínar nádir, ó þú brunnur allrar gjædsku! og viljum gyrda fyrir alla þá ólucku, er annars kynni uppá ad falla, og útbrynja oss fyrir eina andríka bæn med hjálprædi þínu á allar sídur. Því bidjum vér þig audmjúklega, ó Fadir allrar miskunar! miskuna þú og blessa oss, upphef þitt andlit yfir oss, og géf þinn blessadann frid allt í kríngum oss. Vardveit oss med hersveitum þinna voldugu Engla. Gjæt þú sjálfur alls þess, sem þín gjædska hefur oss eptir látid, blessadu og drýgdu alla vora bjørg og lífs-næríng,

svo hún ánægjanleg verdi, bædi fyrir oss og vora. Varðveittu øll vor efni frá allri óblessan, en legg yfir bædi oss og vora, samt yfir øll vor efni og erfidi þína margfalda og nádarríka blessan. O Jesú Kristi! þú einasti Lausnari og sáluhjálpari, vardveit þína kristni, samansafna þínu fólki, vøkva og planta þinn víngard, svo þitt nafn verdi því fremur helgad, svo þitt ríki eblist, þinn vilji framqvæmist, svo á jørdu sem á himni, og þitt blód hrýni á þeim søfnudi, hvern þú hefur endurleyst med þínu blódi til eilífrar farsældar. O þú heilagi Andi! sem ert uppspretta til alls fridar og rósemi, innhell þeirri réttu samvitskunnar rósemi í vor hjørtu, vardveit oss í sáluhjálplegri þeckíngu þess himneska sannleika, og innsigla oss mildilega þá himnesku nád og miskun Drottins. O þú volduga og blessada þríeining! blessa og vardveit nádarsamlega Kónginn, og øll réttkristin yfirvøld. Vardveit oss alla á sálu og lífi, snú frá oss hallæri og húngri, drepsóttum, strídi, ófridi, og elds-bruna, samt øllum háska og ólucku. Géf heilsu og heilbrygdi, géf vellídan ástvinanna, géf hagstæda veduráttu; géf ánægjanlegann ávøxt á jørdina, og gód not þess sama ávaxtar. Géf oss nád og frid; auktu í oss trúna, efl med oss kjærleikann, géf oss ad lifa gódum, lastvørum og rósømum lifnadi, med allri gudrækni og sidsemi.

Umfram allt, géf þeim, sem á þessu Sumri burtkallast fyrir tímanlegann dauda, ad þeir séu vel vidbúnir, svipt eingum af oss í burt ad hálfnudum vorum líf-døgum, eingum í þinni reidi. Vardveit oss frá meidslum og mjøg hastarlegum edur óvid-

kunnanlegum dauda, en gef oss farsælann og frid-samlegann dauda og eilifa Sumar-sælu med þér í himnaríki. Medtak nú í náð, ó þú gjæðskuríki Fadir! þessa vora Sumar-gjøf, og útdeil oss aptur þinni margfaldri blessan til allra vorra athafna og útréttinga. O Jesú! gef oss þig sjálfann í Sumar-gjøf, og þína forþénustu. O heilagur Andi! gef oss þína helgun, upplýsing, huggun og ástgjafir allar í Sumar-gjøf. Svo befølum vér oss med øllum vorum ástvinum, ektamøkum, børnum, hjúum, náúngum, húsum, heimilum, góðzi, skepnum, ordum, athøfnum, áformi og útréttingum í nádarríka vernd og forsvar Guds Fodurs, Sonar og heilags Anda, í vøku og svefni, á nótt og degi, í medlæti og mótlæti, í sorg og gledi, í lífi og dauda, allt inn í þad eilífa dýrdar og fagnadar Sumarid annars heims. Sé nafnid Drottins Jesú Kristi blessad frá eilífd til eilífdar, Amen.

## 2. Hugleiding,

### af Sólunni.

Psálm. 113.

Já frá uppgaungu sólarinnar, allt til hennar nidurgaungu, sé lofad nafnid Drottins.

Þar er einginn hlutur svo dýrmætur til á himni eda jørdu, ad Gudi hafi þókt hann ofgódur fyrir

mannsképnuna. Jóseph dreymdi ad honum þókti sólin, túnglid og allar stjørnur lúta sér, Gen. 37. v. 9. Sólin er sú fegursta af øllum Guds sýnilegum handa-verkum, hennar sæti er í þeim háu himnum, þó lúta hennar verkanir nidur til vor ofan á jørdina, oss til gagns og nytsemda. Já, svo føgur sem hún er, þá lætur Drottinn hana þó lýsa og renna yfir oss, svo vondir og ránglátir sem vér erum, eins og yfir hina gódu, Matth. 5. Þegar Jósúa hádi bardagann vid þá fimm Cananita konúnga, þá lét Gud fyrir hans bæn sólina og túnglid standa kyrr, þángad til hann hafdi unnid sigurinn, Jós. 10. Sá mæddi ferdamann, sem á ad strída vid stirda vedurátt, verdur næsta feginn, þá sólina sjer. Eins líka, þá dymmvidrin gánga, verda menn gladir, nær frá sólinni hefur, svo hún er þá svo sem í hvert sinn ný og ferst. Jesús veri oss í dag og á øllu þessu Sumri, ein blessud Sumarsól, sem alltíd stadnæmist og hvílist yfir oss, og hjá oss, hvert heldur vér reynum mótvidri hørmúnganna, edur hretvidri freistínganna, og géfi oss á því øllu farsælann sigur ad vinna. Mósis hendur mæddust ecki allt til sólarlags, þá hann var ad bidja med þeim upplyptum til Drottins, þvíad Aaron og Húr settu steina undir þær, Exod. 17. v. 12. Drottinn Jesús, sem er kénnimadur ad eilífu, og einn himneskur hyrníngar-steinn, styrki nú vorar bænar-høndur til ad bidja, svo heitt bædi fyrir oss og ødrum, ad vér verdum bænheyrdir, því Drottinn munu menn óttast svo leingi sem sólin og túnglid vara, segir Davíd, Psálm. 72. Fyrst vor gódi Gud veitir oss þá nád, ad meiga

enn þá sjá eina ný upprunna blessada Sumar-sól, þá óttustum med sonarlegum ótta þann blessada sólarinnar Konúng. Þú veldur því ad sólin og túnglid hafa sinn vissann gáng, segir David enn aptur, Psálm. 74. Lærum þad af þessum bádum himinsins ljósum, ad hafa vorn vissann gáng á veigi Drottins bodorda, á veigi dygdanna og mannkostanna, svo þó þád kunni ské, (sem því verr fyrir er ad óttast) ad sól vorrar gudhrædslu kunni undir ad gánga, á eptirkomandi Sumri, fyrir ótilheyrilega hrøsun í syndir og lesti, þá sjáum til hún ýduglega aptur upprenni, fyrir vøkvafullann morgunroda sannrar ydrunar; þegar sólin skeyn heitt, þá brádnadi himna-braudid, Ex. 16. v. 21. Drottinn Jesús smelti krapt sinna blessudu lífsins orda inn í vorar sálir og hjørtu á þessu Sumri, svo ad hvenær sem vér þau lesum edur heyrum, þá mættu þau verda oss ad audlegu himna-braudi, og ylmur lífsins. **Drottinn er skuggi yfir þinni hægri hendi, svo sólin brenni þig ecki,** segir David, Ps. 121. v. 6. O! vid hvad margføldum háskasemdanna bruna hefur himneskur nádar- og verndarskuggi Drottins hlíft oss á umlidnum vetri, þar vér annars hefdum mátt klaga og qvarta med brúdinni og segja: **Horfid ecki á mig ad eg er svo døck, því sólin hefur brennt mig,** Cant. 1. 6. En fyrir hans nádar-ríka hjálp og vernd erum vér nú útvaldir eins og sól, sem hún aptur segir, Cap. 6. 10. Vér unnum til þess, ad vér hefdum ecki fengid ad sjá sólina, eins og Salómon segir um ótímabærann burd, Préd. 6. 5; ad hún hefdi gengid myrk upp yfir oss og hefdi ei haft sitt ljós,

eins og skrifad stendur hjá Esaíam í 13. Cap. v. 9; heldur verid stifeldlega þakin med skýum, eins og Drottinn hótadi Pharaó Egyptalands Kóngi, Ezech. 32. En Drottins milda náð hefur enn þá um hellt Missiri géfid yfir oss sólina, deginum til upplýsíngar og túnglid og stjørnurnar eptir þeirra gángi, nóttunni til ljóss, Jer. 31. v. 35. Látum því sól vorrar lofgjørdar og þakklætis aptur upprenna Gudi vorum gódum til unadsemdar á vorum fyrstu døgum Sumarsins, og segjum med Davíd, Psálm. 146. Sól og túngl og allar lifandi skepnur, lofid þér Drottinn. Jónam Spámann ómæddi upp af sólar hitanum, Jón. 4. Látum nú hinn gamla Adam verda aldeilis vanmáttugann til lastanna og ódygdanna; gjørum umbreytíng til góds á líferni háttum vorum med umbreytíng tímanna, látum varmann þeirrar blessudu réttlætis sólarinnar, Mal. 4. Jesú Kristi, lina abl holdlegra gyrnda og tilhneigínga, þá mun hann géfa ad vér ødlustum hjálprædid undir hans væng- jum. Gjørum sem qvinnurnar er komu til grafarinnar um sólar uppruna, Marc. 16. Skodum vort eigid hjarta í hverju Jesús á geymdur ad vera; sé hann þar fyrir, þá føgnum og verum gladir, því þá er þad sú rétta sólarborgin sem Esaías umtalar, Es. 19. En ef vér høfum honum þadann med uggleysi og ydkun syndanna útvísad, svo leitum hans, og lockum hann þángad inn aptur med heitri bæn, og alvarlegri hjartans ydran, því hvad gagnar oss þad fyrir sálina, þó sú náttúrlega sólin skíni skært yfir oss, ef ilur og varmi Jesú Kristi ástar og elsku, vermir ecki og endurnærir

hjørtun og sálir vorar; látum ecki sólina undir gánga yfir vorum løstum, Eph. 4; heldur vernm eins og qvinnan sú sem iklædd var sólunni, Apoc. 12; þad er, Kristi réttlæti, hvert med trúnni medtekid færir þann ávøxt med sér, ad ef vér á eptirkomandi Sumri kunnum burt ad kallast, þá munum vér skína sem sól í ríki vors Fødurs, Matth. 13. 43. Rækjum og stundum ordid Drottins; bidjum Gud ad hjørtun vor' líkist eigi þeirri vokvalausu jørdu, í hverri sædid skrælnar, þegar sólin géck upp, Marc. 4. v. 6; heldur heyrum þad svo nú á hinum fyrstu Sumar-døgum, ad vér færum af því ávørt í þolinmædi á eptirkomandi Sumartíma. Þann gáng sem sólin sýndist hafa á hennar fyrsta skopunar degi, hann hefur hún enn, og mun hafa til enda veraldar; byrjum nú í Jesú nafni á hinum fyrstu Sumar-døgum allann vorn gáng í ótta Drottins med bæn og ákalli til hans, bædi um vorar og allra sann-kristinna naudsynjar, og høldum oss fast vid þann veg allt til Sumarsins útgángs, edur þángad til vér høfum á enda gengid skeid vorra lífdaga. Sólin géfur af sér byrtu um alla verøldina; eiusetjum oss ad láta sól gudrækninnar og kristilegs lífernis lýsa fyrir vorum sannkristnum brædrum, svo ad, eins og vér sjáum gløggt til ad framqvæma vorar athafnir vid hid blessada sólar-ljós, eins mættu þeir sig speigla í vorum gjørdum og eptir voru dæmi lockast til dygda og dáda, og dýrka sídan vorn Fødur sem er á himnum, Matth. 5.

Sólin vermir og endurnærir náttúru dýranna, urtanna, trjánna, etc. Látum kjærleikans og elsku-

legra góðgjörða il, leggja til allra rétt=trúaðra Guðs barna sem vér til náum, sérðeilis Guðs voladra, svo mun Drottins náðar og elsku ilur, verða staðfastur yfir oss og hjá oss, eptir sinu óbrygdanlegu loforði: Hver fátækum miskunar, hann lánar Drottni, hann mun honum það ríkuglega endurgjalda, Prov. 19; hver hann gèfur fátækum, þann mun ecki bresta, Prov. 28. v. 17. Sælir eru miskunsamir, segir Herrann sjálfur, þeir munu miskun hljóta, Matth. 5. Sólin er í miði plánetanna, Jesús sem í miðið stóð hjá sínum Lærisveinum, og óskaði þeim friðar, sé nú mitt í vorum hjörtum, og géfi oss frið samvitskunnar og sálarinnar, hann sé í miðið í kristninni, og útbíti friði eindrægninnar og kjærleikans til allra sinna barna, hann sé í miðið hjá oss, þá vér leitum vorrar atvinnu og næríngar, og útbíti sinni blessan á báðar hendur, yfir alla vora lífs björg og útréttíngar hvar sem vér erum staddir, hvert vér vökum eða sofum, þá sé yfir oss hans blessaður friður til verndar og forsvars móti øllum vígvélum allra vorra óvina. Sólin upplýsir hin ønnur himintúnglin, af hverjum sum mundu annars engva birtu bera; nema Drottins náðar ljós upplýsi skilníng vorra hugskota, þá eru vor hjörtu formyrkvuð í því að þeckja vorn Guð oss til sáluhjálpar, og nema hans ljómanda líferni upplýsi vort athæfi, þá eru allar vorar gjörðir ecki utan eintóm myrkranna verk. Sólin er það fegursta ljós himinsins. Jesú Kristí blessuð ásjána skein sem sól þá hann ummyndaðist á fjallinu Tabor, hann er sá fegursti meðal mannanna sona, Psálm. **45.** Hans augu eru þúsund=

sinnum skærari enn sólin, þeim hinum sömu sínum skjæru og miskunarfullu elsku augum lypti hann til vor á þessu Sumri, og láti upprenna á hverjum degi, yfir oss sína nádar og gjædsku sól, sem burtdrýfi öll syndanna, sorganna, straffsins, skadsemdanna, freistínganna, ofsóknanna og fordæmíngarinnar myrkur. O Jesú! þú blessada réttlætis sólin! géf öllum þeim, sem á þessu Sumri burtkallast, þá farsæld og blessun, ad þegar vér ei sjáum lengur þá náttúrlegu sólina, þá mætti upprenna fyrir vorri sálar = sjón, sú blessada fagnadar sól eilífrar dýrdar og unadsemdar, og leid oss inn í þad fagurblómgada Sumar eilífrar dýrdar, hvar oss mun hverki húngra né þyrsta, hvar enginn hiti né sól mun brenna, hvar ed þú vor miskunari munt oss leidseigja og leidbeina til brunna lifandi vatns, Es. 49. v. 10; þar munum vér njóta óendanlegrar Sumar sælu í þeirri borginni sem hverki þarf vid sólar né túngls, ad þau lýsi henni, því Guds dýrd upplýsir hana, og hennar ljós er Lambid, Apoc. 22. v. 5. Þad ertu minn Herra Jesú, hid saklausa Lambid Guds, sem burt tókst heimsins syndir. Þér sé lof og dýrd ad eilífu, Amen.

---

## 3. Hugleiding,

### af Ljósinu.

Psálm. 43. v. 3.

**Drottinn send þitt Ljós og þinn sannleika, ad þau leidtogi oss.**

Pau enn þyckvu skýin adskilja sig svo ad heidbjart verdur, og hans ljós skín gégnum þokuna, segir Job, 37; þegar hann er ad vídfræga verkin Drottins. Pad egum vér nú og alltíd ad þacka Guds fødurlegri gjædsku, ad hann lét ecki vegna mannkynsins synda vera sífeldann Vetur um allann heimsins aldur, heldur nidurskickadi svo tímanna skiptum, ad vér skyldum alltíd fá ljósid Sumarsins, eptir myrkur Vetrarins. Þetta mjøg dásamlega almættis verk Drottins, sem er ljósid, skín enn þá gladt yfir oss med þessu ný upprunna Sumri; lofadur sé Gud! Því skulum vér med hjálp Drottins útdraga oss nockrar heilagar Hugleidíngar til þacklætis vid hann, ef hann af nád sinni vildi þad af oss þyggja, svo sem í Sumar = gjøf (hvar um ei viljum efast) og vér þar med kynnum ad leggja gódann grundvøll vorrar farsældar, á í hønd farandi Sumri; þar til géfi hann sína nád í Jesú nafni!

Svo er ljósid veglegt handaverk Drottins, ad sjálfur Jesús verdur ljós kalladur, Jóh. 1; og hans elskulegir eru kalladir ljóssins børn, Eph. 5. Ljósid skapadi Gud til þess ad vér skyldum géta skodad adrar hans sképnur, dádst ad þeim, og fært oss þær í nyt, því ef ecki hefdi ljósid verid gjørt, þá hefdum vér ecki kunnad ad dæma um hina ósýnilegu hlutina af þeim sýnilegu, eins og Paulus adqvedur, Róm. 1. 19. Þess vegna þá vér skodum byrtuna eda ljósid, þá eigum vér ad vidurkénna hversu stór velgjørníngur Drottins þad sé, og honum þar fyrir ad þacka. Pad er víst, ad hefdi ecki ljósid verid, þá hefdu hverki menn né sképnu=

ur kunnad ad lifa, edur þeirra líf hefdi verid mjøg eymdarlegt, þó lifad hefdu, hvad audsjáanlegt er af þeim í þrjá daga varandi Egyptalands myrkrum, Ex. 10. v. 22. Þess vegna líkir Andi Drottins qvølum fordæmdra vid myrkur, Matth. 25. v. 3. Med fegurd ljóssins verdum vér áminntir ad yfirvega þá glansandi fegurd þess himneska ljóssins, í hverju Gud býr, 1 Tím. 6; hvers vegna hann og svo kallast Fadir ljósanna, Jac. 1. 17. Þar fyrir ástundum alltíd ad fordast verkin myrkranna, svo vér aldrei komum í hin eilífu myrkur, Eph. 5. 11. 2 Pét. 2. 7. Svo sem enginn hlutur kann ad sjást án ljóssins, svo kunnum vér eckért ad sjá edur skilja í andlegum efnum, nema fyrir upplýsíng heilags Anda, Eph. 1. v. 18. Hvad þú ásetur þér, þad mun hann láta luckast og ljósid mun skína á þínum vegi, sagdi Eliphas vid Job, C. 22. Sjáum til ad allur vor ásetníngur og athafnir á þessu Sumri, séu ljóssins verk, og í Gudi gjørdar, þá mun hann láta ljós luckunnar og farsældarinnar skína á vorum vegi. Med þessari sinni veglegu sképnu, begáfadi hann oss á umlidnum Vetri. O! hversu lángsamur og óskémtilegur hefdi hann annars verid, ef vér aldrei hefdum ljósid sjed, en vér meigum nú hans fødurlegri miskun þad þacka, ad hann hefur begáfad oss bædi med ljósi sólarinnar, ljósi túnglsins, ljósi augnanna, ljósi eldsins, ljósi dagsins, ljósi skilníngsins, og því allra dýrmætasta ljósi sinna orda; blessad sé hans heilaga Nafn ad eilífu. Seigum því med Job Cap. 29. 3. Hans ljós skein yfir mínu høfdi, og eg géck vid hans ljós í myrkrinu. Drottinn

hefur náðarsamlega upphafið yfir oss ljós síns andlitis, eins og Davíð segir í Ps. 4. 7. Hann hefur frelsað sálir vorar frá dauðanum, og fætur vorar frá hrosuninni, svo það vér meigum nú gánga fyrir Guði í ljósi lifandi manna, í voninni eptir því eilífa ljósinu„ Psálm. 56. v. 10. Það fegursta ljós sem meðal vor skynið hefur, er blessað orðið Drottins, hvert eð hefur sinn bjartleika af þeirri blessuðu og gagnskjæru réttlætis sólunni Herranum Jesú Kristó. Til þessa ljóssins hefur vor góði Guð kallað oss yðuglega frá myrkrum andvaraleysisins og syndanna, 1 Pét. 2. 9; með hræríngu síns góða heilaga Anda, og fyrir opinbera orðsins prédikun, annars hefðum vér fálmað án ljóssins í myrkrunum, Job. 12. 25; þanninn hefur sá verið vort ljós, Es. 60. v. 19, í hjá hverjum er einúngis ljós, Dan. 2. Látum oss nú á eptirkomandi Sumri gánga í ljósi Drottins, það er, látum hans orð vera ljós á vorum vegum og lampa vorra fóta, Ps. 119. Løgum eptir því allann vorn lifnað og gjørðir; nóttin vetursins er umliðin, en dagur Sumarsins er kominn, leggjum því af verkin myrkranna, en ískrýðumst herklæðum ljóssins, sem eru kristilegar dygðir og mannkostir, Róm. 13, yfirklæddir með Jesú Kristí réttlæti. O! hvað fagur Sumarskrúði er það? ef vér hofum gjørt verkin myrkranna, þá tøkum oss nú fyrir hendur að gánga svo sem ljóssins børn, Eph. 5, þá mun vort ljós, (það er lucka og velgeingni) frambrjótast sem morgunroði, Es. 58; og ljósið heimsins, sem er Jesús, mun géfa að vér gaungum ei í myrkrunum, heldur ef vér honum eptirfylgjum, mun hann géfa oss

ljós lífsins, Jóh. 8, 12; og gjora oss skapfeldlega til arfskiptis heilagra í ljósinu, Cól. 1, 12. Já, hann mun vera vort ljós í allrahanda myrkrum, Mich. 7. Þeir sem nú ei sæta því ad qveikja þetta ljósid hjá sér, á þessum fyrsta Sumarsins dögum, þá er eg hræddur um, ad þeir munu burtreknir verda frá ljósinu í myrkrid, eins og Job segir um hina ógudhræddu, Job. 18, því hver hann illa gjörir, sá hatar ljósid, segir Herrann, Jóh. 3. 19, og ef þad ljós, sem í þeim er, er myrkur, hvílík munu þá myrkrin sjálf? Matth. 6, 23. Flýum þessara selskap, og fordumst þeirra dæmi. Gaungum heldur medan vér höfum ljósid, svo ad myrkurin höndli oss ecki, Jóh. 12. Medan vér höfum ljósid Jesúm hjá oss, þá trúum á hann, uppá þad vér séum ljóssins börn. Gud er ljós, segir Jóhannes, 1 Pist. 1. 5, og eingin myrkur eru í honum. Ef vér gaungum í ljósinu líka sem hann sjálfur er í ljósinu, þá höfum vér samfélag innbyrdis, þá mun öll góð og öll fullkomin gjöf koma ofan til vor frá Födur ljósanna, Jac. 1, 17. Drottinn útsendi nú sitt ljós og sinn sannleika, ad þau leidtogi oss, Ps. 43, hann láti oss upprenna ljósid í myrkrunum, Psálm. 112. 4, sérdeilis láti hann sífeldt gledi og fagnadar ljós vera í vorum samvitskum, svo ef nockur hörmúnganna myrkur kunna ad byrgja fyrir oss ljós velgeingninnar edur medlætisins, þá snúi hann vorri sorg í gledi, og hugsvali oss og gledji eptir vora hörmúng, Jer. 31, hann blessi oss í allri vorri innsekt og öllum vorum handaverkum, Devt. 16, svo vér verdum gladir, láti hann oss heyra fögnud og

gledi, svo þau beinin gladvær verdi. Hver hann hefur sundurmarid, Ps. 51; hann upptendri í vorum hjørtum skiært trúar ljós, sem færir þann ávørt, ad vorra gódverka ljós lýsi fyrir mønnum, svo þeir siái þau, og dýrki vorn Fødur sem er á himnum, Matth. 5. Í einu ordi ad segja, Gud vonarinnar uppfylli ofs med øllum føgnudi og fridi í trúnni, svo vér høfum gnóglega von fyrir krapt heilags Anda, Róm. 15, og fáum med føgnudi ad uppausa ílmsætt hugsvølunar vatn, úr himneskum hjálpræðis brunnum Drottins, Es. 12, hvenær sem ofs áliggur. Umfram alla hluti, þegar daudans myrkur yfir ofs falla, og vér siáum ei leingur þetta fagra heimsins ljós, uppljúktu þá, ó Jesú! fyrir ofs þeirri blessudu ljósfins borg, þeirri himnesku Jerúsalem, sem hverki þarf vid sólar né túngls, því þú siálfur, ó! þú lambid Guds, ert hennar ljós! Apóc. 21; upplýs vor augu svo vér sofnum ecki í daudanum, heldur géf ofs þad eilífa dýrdar ljós, í hverju vér fáum ad siá þig augliti til auglitis, þad eilífa Sumar-ljós, hvert enginn vetur mun burt taka; þad eilífa gledinnar ljós, hvers birtu eingin sorg mun deyfa; þad eilífa réttlætis ljós, hvers ljóma eingin synd mun byrgja; þad eilífa skilnings ljós, hvert einginn vanskilníngur mun sløckva; þad eilífa kiærleiks ljós, á hvert eckért hatur mun skyggja; þad eilífa heilbrygdinnar ljós, hvert enginn sótt mun kiæfa; þad eilífa lífsins ljós, á hvert einginn daudans þitur mun blása, heldur mun eilíflega lifa, Amen.

---

# 4. Hugleiding,

af Deginum.

Jóh. 11. v. 9.

Eru þar ecki tólf stundir í Degi? ef nockur geingur um Daginn sá steitir sig eigi, því hann sier ljós þessa heims.

Slepptu mér nú, því það dagar, sagdi Guds Sonur vid Jacob er hann féckst vid hann, en Jacob sagdi: eg sleppi þér ecki fyrr enn þú blessar mig, Gen. 32. v. 26; og Móses segir hann hafi blessad hann. Sæll er sá madur, sem med trúar- og bænar-ørmum svo høndlar Kristum á hverjum morgni, ad hann leggur blessan yfir hann og øll hans verk, sem fyrir honum liggur ad framqvæma á þeim degi; En megi madur kallast sæll fyrir eins dags vellídan, hvad miklu framar mættum vér kallast sælir, ef vér med vorum andlegu hugleidíngum, orkudum þess á hinum fyrstu døgum þessa nú-inngengna Sumars, ad allir þess dagar yrdu oss blessadir, vér sjálfir blessadir, og øll vor verk blessud. Gud gefi oss þar til nád síns Anda í Jesú nafni. Í dag er hinn fjórdi dagur þessa Sumars, þar fyrir skulum vér á honum sem og sérhvørjum ødrum degi minnast sérdeilis á fjóra daga, og af þeim taka oss andlegar hugleidíngar. Hinn fyrsti er vor fædíngar dagur; hann hafa maktar-menn og stór-herrar veraldarinnar í mikilli virdíngu; Pharaó kóngur héldt sinn burdar-dag, Gen. 40. Svo gjørdi og Heródes, Matth. 14. Ecki einasta

á þeim degi ársins sem ber uppá vorn fædíngar dag, heldur og á hverjum degi eigum vér ad minnast vors burdar-dags, med því móti, ad offra Gudi hjartanlegu þacklæti, fyrir þann velgjörníng, ad hann af einskjærri nád, og födurlegri hjarta gjædsku, án þess hann þyrfti vor vid í nockru sín vegna, skapadi oss skynsemdarfullar manneskjur, svo vér kynnum fyrir-uppíhýsíng heilags Anda, ad fá hann þecktann oss til sáluhjálpar, og notid þeirra gjæda, er hann bædi hér og sídar hefur oss veitt og tilbúid; þvíad alla hluti, svo vel þá himnesku í loptinu, sem þá jardnesku á jördunni, hefur Gud fyrir manninn gjörda; af þeim hefur madur not, yndi og eptirlæti, einna helst fyrir þad, ad hann er skynsemdarfull sképna, og þá yfirgnæfa þau eilífu gjædin, til hverra hann hefir oss útvalid, ádur enn grundvöllur veraldarinnar var lagdur, Eph. 1; og þad ádur enn hann gjördi oss manneskjur. Á þennann dag eigum vér med þvílíku þacklæti ad minnast, ad vér brúkum alltíd vora skynsemi og vora limu, Gudi til dýrdar og þócknunar, oss til velferdar, og náúnganum til gagns og adstodar: þad kallar Páls ad ljá sína limu til þess offurs sem lifandi er, og heilagt og Gudi þacknæmt, hvert ad er vor skynsamleg þjónusta, Róm. 11. Og enn aptur kémst hann svo ad ordi: ljáid ydur sjálfa Gudi, og ydar limu, Gudi til réttlætis hervopna, Róm. 6. v. 13.

Sá annnar dagur, á hvern vér eigum sífeldlega ad minnast, er vor skírnar-dagur, því svo dásamt Guds verk sem þad var ad skapa oss, svo miklu dásamlegra var þad, ad endurskapa oss, ad

gjøra oss, sem af náttúrunni vorum reidinnar børn, Eph. 2; og í syndinni getnir og fæddir, Ps. 15; ad Guds børnum, og erfingjum eilífs lífs. Þessa velgjørníngs minnist Páluss, er hann segir, Gal. 3. Þér erud allir Guds børn fyrir trúna á Jesúm Kristum, því svo margir af ydur sem erud skírdir, þér hafid íklædst Kristó. Sá sem nú vildi med athuga yfirvega, hver gjædamunur á því er, ad vera Guds barn, edur Satans þræll, hann mundi nudir eins fá þeckt, um hvad mikid þacklæti hann sé Gudi skyldugur, fyrir sinn skírnar=dag, og hvad naudsynlegt, já ómissandi, þad sé ad minnast sífeldlega á hann. En allra helst eigum vér, ad minnast þess sáttmála sem vér vid Gud gjørdum í skírninni; hann hefur oss helgad og hreinsad fyrir vatns=laugina í ordinu, Eph. 5: því eigum vér ecki ad ata oss í óklárindum illgyrnis syndanna, þvert á móti þeim sáttmála, vér vid Gud gjørdum í skírninni. Postulinn Petur segir: 1 Pist: 3. Ad skírnin sé Sáttmáli gódrar samvitsku vid Gud; þad skil eg svo: ad vor sáttmáli vid Gud í skírninni gjørdur, skuldbindi oss til ad varast allt þad ad gjøra edur framqvæma, sem orsakar vonda og órólega samvitsku eptirá; sá þessa gjætir og vill þad gjøra, fær því af stád komid, þó holdi og blódi þyki þad torveldt, því hann megnar alla hluti fyrir þann sem hann máttugann gjørir Jesúm Kristum, Phil. 4. Og þeir sem Kristó tilheyra krossfesta í krapti skírnarinnar, sitt hold, med þess gyrndum og tilhneigíngum, Gal. 5. Sá sem þess vegna vill alltíd vera Guds barn, hann skal á hverjum degi minnast á þennann dag, keppast

vid ad endurnýa sinn skírnar sáttmála, fyrir heita ydran og lifnadarins betran; endurnýast í anda síns hugskots; íklædast þeim nýa manni sem eptir Gudi er skapadur í rettlæti og heilagleika sannleikans, Eph. 4.

Sá þridji dagur, hvers vér eigum sífeldlega ad minnast, er vor andláts-dagur. Pad má sýnast undarlegt, ad manneskjan gétur nockurn tíma gleymt daudanum, þar vér þó daglega deyum, og hvert augnablik bendir oss til daudans; því meir sem vorir dagar fjølga, því meir fæcka þeir; þess vegna ætti vort líf, ad vera sífeld umþenkíng daudans; og hér ad auki er daudans von á hverjum degi. Vér vitum ecki nær hús-herrann kémur, hvert um qvøld, edur um midnætti, edur nær haninn galar, edur ad morgni, Marc. 13. Hver af oss veit, hvert vær aflifum þennann dag? Æ! ad vér vissum, edur vildum vita hvad til vors fridar heyrir, þá mundum vér á þessum degi þar vaktan á hafa, Matth. 21. Pess vegna minnumst vér rettilega vors Andláts dags, ef vér byrjum svo hvern dag, ad vér væntum hann verdi vor sídasti, og færum svo eingu fram á þeim degi, nema því sem óhætt væri, þó Daudinn yfirfélli oss í því starfi; Sæll er sá þión, nær hans herra finnur hann svo gjørandi, þá hann kémur, Matth. 24.

Sá fiórdi dagur, sem oss á ætíd í minni ad vera, er hinn sídasti dagur, edur dagur allsherjar Dóms. Hann er eins alltíd víss og óvíss sem Daudans dagur; hver þorir ad segja fyrir víst, ad Høfud-Engilsins básúna muni ei qveda vid í skýum himins, ádur enn þessi dagur er úti, 1 Thess. 4. En

þvílíkanu sem hinn,sídasti dagur finnur þig, þvílíkann og svo á sig kominn, hefur hann þig fyrir dóminn, muntu svo ødlast eptir því sem þú hefur adhafst í líkamans lífi, hvert þad var íllt edur gott, 2 Cor. 5. Þvi þá mun hverjum sem einum lofstýr ské af Gudi, 2 Cor. 4. Verum því strax i dag vakandi, og varir um oss, bædi fyrir dauda og dómi. Og þó ad oss kunni ad sifja (því líka sifjadi þær forsjálu jómfrúrnar) þá vøknum í tima. Hver einn dagur, sé vor vøkudagur, hver ein nótt, vor vøku nótt, svo vér gétum tekid vara á því, ad hafa vora lampa tendrada, og vera alvaknadir, fyrir eina hreina ydran og lifandi trú, ádur enn brúdguminn lætur aptur, Matth. 25. Gjætum nú þessa alls á hinum fyrstu døgum þessa Sumars; hverja þó vér aflifum, þá vitum vér samt ei nema þetta verdi vort hid sídasta Sumar; eg er viss um, ad margir þeir sem lifdu hinn fyrsta dag þessa Sumars, munu ei lifa þann seinasta; en hvert eg, edur þú, verdum í tølu hinna fyrri, edur sídari, þad veit hverki eg né þú, Gud veit þad; en hitt veit eg, ad ockur er þad eins víst og ødrum hér vid ad skilja; því vil eg ecki varbúinn vera, heldur nú strax mig í vagt taka, og fyrir heita ydran og hræsnislausa líferníins betran, mér á veg til himnaríkis snúa, svo ad ef daudi og dómur koma, þá vil eg mæta þeim med sama hugarfari, med sama andvarpi sem Simeon, med Jesúm á trúarinnar ørmum í hjartanu, Eph. 3; og med þetta andvarp í munninum: Nú lát þu, Drottinn! þjón þinn í fridi fara. Hver sem nú ýduglega og á hverjum degi, hefur í huga, þessa

fjóra daga, med sannri guðhræðslu, hans dagar verda allir blessadir, og bestir þeir síðustu; sæll er sá sem þess gjætir, og gjørir þar eptir.

Fleiri eru ad sønnu dagar þeir, hverja heiløg Ritníng hefur þess vegna uppteiknad, ad vér megum þeim ecki aldeilis gleyma, heldur þá í minni hafa, til ad dýrka með þeim Guð, og gjæta vorrar velferdar. Þar er fyrst: vor Drottins dagur, sem og sérhvør annar helgur dagur af Gudi og koníngiuum heilagri þjónustugjørd tileinkadur. Minnstu ad helga hvíldar daginn Drottins Guds þíns, stendur í løgmálinu. Á þennann dag minnist Lúcas í Postulanna gjørníngum, 20. Cap. v. 7, er hann segir: ad Lærisveinarnir hafi komid saman á hinum fyrsta degi vikunnar ad brjóta braudid. Einninn sá Jóhannes í Opinberíngunum, Ap. 1. 10, Guds Son á Drottins degi millum þeirra 7 ljósa-stjakanna. Þennann dag eigum vér med hinni stærstu gudrækni heilagann ad halda, og á hinum vikudøgunum ad yfirvega það, sem oss á þeim helgu døgunum í Guds ordi kénnt og prédikad var; en allra helst helgum vér þennann dag, ef vér á honum byrjum nýtt líferni, med nýrri viku hvørri, og færum þannig ávøxt af ordsins heyrn í þolinmædi.

Sá annar: er nádarinnar dagur, hvern Páll kallar dag hjálpræðisins, 2 Cor. 6. v. 2. Þennann sama dag nefnir Esajas þacknæmilegt ár Drottins, Es. 61. v. 2. Fyrir þennann dag á ad skiljast tími Guds nádar í Evangelió frambodinnar, med hverri oss er frambodin sáluhjálpin og réttlætid fyrir trúna, vegna Kristi forþénustu;

þetta sannar Páluß, Róm. 3, segjandi: vér verdum út af hans nád án verdskuldunar réttlátir fyrir þá endurlausn, sem ordin er fyrir Jesúm Kristum, hvern Gud stickadi til eins nádar-stóls fyrir trúna í hans blódi. Þessi dagur er sá eini gledi-dagurinn vor í þessum heimi, ad gledjast í og af þeirri nád, sem Gud hefur oss gésid í Drottni vorum Jesú Kristó. Og ef rétt er álitid vort stand, þá er þessi eini fögnudur hér stadfestur, en enginn annar, þad vitnar Páluß, er hann í ödrum stad talar um þennann hjálpræðis dag, Phil. 4, segjandi: Gledjid ydur í Drottni alla tíma, og enn aptur segi eg, gledjid ydur því Drottinn er nálægur, þad er Guds nád, er nú í Evangelió fyrir Jesúm Kristum frambodin; þessa hjálpræðisins og nádarinnar dags eigum vér svo med þackl'æti ad minnast, ad vér eigi forsómum nádarinnar tíma, eigi brjótum hann af oss, heldur tökum med sann-ydrandi og trúndu hjarta, móti frambodinni nád, svo vér áf Jesú Kristi fyllíngu medtökum allir nád fyrir nád, Jóh. 1. v. 16.

Sá þridji: er dagur reidinnar, hvern Zophonias spámadur fyrirsagdi Gydíngum, Cap. 1, er hann spádi um þeirra eydilegging, segjandi: sá sami dagur er reidinnar-dagur, hrygdar- og ángistar-dagur, Item segir Páluß, Róm. 2. v. 5, en þú eptir þínu forstockudu hjarta safnar þér sjálfum reidi uppá reidinnar-dag, og opinberunar Guds réttlætis dóms. Fyrir þessum degi eigum vér ad óttast, og egna hann ecki yfir oss med vísvitandi íllgyrnis syndum; en lofadur veri Guds Sonur, sem oss hefur frelsad frá tilkomandi reidi,

1 Þess. 1, og með sínu blóð-regni sløkt Guðs reiði-eld, en þar á mót hefur hann með sínni ákrgan og forþénustu upptendrað í síns Føðurs hjarta einn óslockvanlegann ástar-eld til allra hans réttrúaðra barna, Jer. 31.

Sá fjórði dagur: er dagur mótlætisins. Fáir og íllir eru mínir dagar, segir Jacob; þessi dagur minnir gjarnan sjálfur á sig, því hann er Guðs børnum nærsta fylgisamur. Ezechias kóngur kallar það neyðarinnar-dag, 2 K. b. 19. Um hann talar svo Job, Cap. 7. Hlítur ecki maðurinn að vera í sífeldu stríði á jørðunni, og hans dagar eru sem eins daglaunara. Þennann dag eigum vér að umbera með þolinmæði, því hann er þó alltíð kríddaður með himneskum huggunum, sælir eru þeir sem harma, því þeir munu huggaðir verða, segir vor Frelsari, Matth. 5, hann þénar Guðs børnum til hins besta. Gott er að hafa samfélag með Jesú í hørmúngunum. Ef heimurinn hatar yður, segir hann, þá vitið, að hann hefur hatað mig fyrri, því sagði hann við þá tvo reisendur til Emaus, Lúc. 24. Hlaut Kristur ecki þetta að líða, og inngánga svo í sína dýrð. Látum oss þess vegna ei undra, þó vér eins og hann og hans elskendur, hljótum fyrir margar hørmúngar að inngánga í Guðs ríki, Act. 14. Hér um talar Páll mjøg hugganarsamlega, 2 Cor. 1, er hann segir: svo sem Kristí píslir yfirgnæfa til vor, svo yfirgnæfir vor huggun fyrir Kristum. Hann léttir af oss þá best gégnir, og líður ei að vér freistumst yfir megn fram, 1 Cor. 10, heldur géfur hann það, að vor hrygð, sem stundleg er og

léttbær, gjørir oss eina eilífa og yfirmáta mikla dýrd, 2 Cor. 4.

Fimti dagurinn: er dagur medlætisins, edur sem Pétur, 1 Pist. 3. v. 10, ad ordi kémst, þeir gódu dagarnir, á þeim er oss eingu sídur vandlifad, enn þeim bágu, ad ei upphrokum vér oss, edur gleymum Gudi, en festum ofmjøg hiartad vid þad stundlega. Páll reiknar alla hluti þreck ad vera, svo hann ávinni Kristum, Phil. 3. Búkum því svo tíma medlætisins ad vér aldrei séum varbúnir ad taka á móti degi Mótlætisins. Ef vér nú ýduglega hugsum eptir øllu þessu, þá munu oss allir dagar, bædi á þessu Sumri, og svo leingi vér lifum, verda farsælir; þá mun vor dauda-dagur verda oss betri enn vor fædingar-dagur, Prédik. 7. v. 1, og vor lífs-vegur mun verda sem eitt skínandi ljós, sem framgeingur og lýsir yfir oss allt til hádeigis, Próv. 4, 18. Gud himneskur géfi oss og øllum vorum náúngum og ástvinum alla daga og stundir farsælar og blessadar, hann láti á þeim tilkomandi døgum Jacob fá rætur, og hinn andlega Israel blómgast, Es. 27, og innleidi oss alla til þess eilífa gledi-dags á himnum! honum med Syninum og heiløgum Anda sé lof og dýrd, frá eilífd til eilífdar, Amen.

---

## 5. Hugleiding,

### af Hitanum.

Jerem. 17, v. 7. 8.

**Blessadur sé sá madur, sem reidir sig**

uppá Drottinn, og Drottinn mun vera hans athvarf, hann er eins sem það tré hjá vatni er plantað, og sem útbreiðir sínar rætur hjá einum læk, hann mun ecki óttast þó hitinn komi.

Af því hitinn er helst um Sumar-tímann, því skulum vér nú taka oss út af honum andlegar hugleidíngar. Hormúngum og mótlætíngum Guðs barna er opt í heilagri ritníngu við hitann líkt, bæði í þessari grein Jeremiæ spámanns, svo og hjá Postulanum Pétri, er hann segir, 1 Pist. 4, látið ei þann brunann hørmúnganna undra yður. Þú ert einn skuggi þess fátæka fyrir hitanum, segir Esajas, Cap. 25. 4, horfið ei á mig eg er svo døck, því Sólin hefur brendt mig, segir brúðurin í lofqvæðinu, Cap. 1. v. 5. Eins og það Jónæ spámanni varð ærið ómódt, og hann vanmegnaðist af hita Sólarinnar þá lundurinn visnaði, sem skýldi honum, Jónæ. 4, svo er og fyrir því að óttast, að á eptirkomandi Sumri kunni oss að verða ómódt af hita hørmúnganna, nema vér með hjálp heilags Anda í tíma uppbyggjum yfir oss einn hlífðarlund, hvørs rætur að gróðursettar séu í orði Drottins, og hvørs lauf-blöð að séu heilags Anda hugganir, næsta skjólsamar til að bera af oss brunann freistínganna. Gjætum vér nú þessa vel og guðrækilega í verk komið, þá er eg viss um, að eins og Guð kom til Abrahams í dalnum Mamri, þá dagurinn var sem heitastur, Gen. 18, eins mun Drottinn, þá honum þóknast, að láta oss reyna

hita mótlætisins á þessu Sumri, vera hjá oss í neydinni, oss þadan útrycckja og oss vegsamlega gjöra, en þó med því móti, ad vér berum þann hita og þúnga dagsins réttilega; því skulum vér taka oss vissar reglur fyrir til hugleidíngar, sem vér nú á hinum fyrstu dögum Sumarsins skulum læra, en brúka þær sídar þá á þarf ad halda.

Og er hin fyrsta þessi: Ad hafa ecki hjartad fast vid heiminn, eda þad, sem í honum er. Því fastara sem tollir nidur í sárinu, því meira qvalrædi er ad þola, þá rifid er upp úr því; því fremur sem einn hefur fest sitt hjarta vid þetta stundlega, því meiri átök þarf sá himneski Israels grædari, ad rífa þad frá holdlegri áhyggju. Þar fyrir, þegar oss í Sumar þykir vænst um vort stand, þá látum oss vænst þykja um þann, sem svo þæga medlætis sól géfur, og höfum alltíd hjartad og þess elsku á honum fasta. Elskid ecki heiminn, né neitt þad sem í honum er, ef nockur elskar heiminn, í honum er ecki kjærleiki Födursins, segir Jóhannes, 1 Pist. 2. Þó madur vildi flýja undan hita hörmúnganna í forsælu veraldarinnar, edur stundlegra muna, þá er þad til ad jafna, sem einn vildi flýja undan hita sólarinnar og kasta sér í brennandi elds-glód. Lídum heldur med þolinmædi, ad Drottins hönd þrycki oss, svo vér af velgeingninni ecki ofmjög ugglausir, edur upphrokadir verdum. Guds örvar eru sárbeittar og stínga, þess vegna dempa þær og holdlegar gyrndir. David gaf sig frá lostaseminni med Bersabe, þegar barnid vard sjúkt, 2 Sam. 12. v. 16. Börnin eru afvanin med því ad eitthvad ramt er borid á

brjóst móðurinnar; Guð afvenur sína trúaða af brjóstum veraldarinnar, svo kalla eg vellystíngarnar, með beiskri krossins malurt. Þó Guð kunni að gjöra vorn Sumargáng í einhverri máta ordugann með klúngrum mótlætínganna, eður hrjóstugann af þyrnum freistínganna, þá gjörir hann það til þess, að vér skulum því heldur láta oss lánga til hans mýskunar og dýrðar-húsa. Skorturinn og kremin snéru þeim fortapaða Syni til Föður húsanna aptur, Lúc. 15. Ástvinar hörmúngin rak þá Canversku konu frá Týró og Sídon, Matth. 15. Svo sem smiðurinn hreinsar úr málminum sorann með eldsins hita, svo hreinsar vor góður Guð af oss sællífisins og syndanna saur í krossins ofni; því segir hann hjá Es. Cap. 48, 10. Sjá eg hefi hreinsað þig sem sylfur, og útvalið þig í ofni eymdarinnar.

Önnur reglan er, að undir eins og vér tökum til að reyna bágt, þá flýum til Kristum; géfum oss í fer með öllum þeim, sem það hafa til bragðs tekið, þegar að hefur þreyngt. Ef vér reynum heilsubrest á sjálfum oss, þá verðum samferða hinum líkþráa, sem umgétur hjá Matth. 8. Ef reynum böl og mótlæti á börnum vorum, géfum oss í fer með föður hins túnglsjúka, Matth. 9, og með Jairo, Marc. 5. Ef á hjúum vorum, þá með hundraðshöfdíngjanum, og svo framvegis. Það slær aldrei feil, að hjá honum fáum vér bót á öllu böli. Því meir sem vatnið óx í Nóa-flóði, því meir hækkaði örkin upp; svo skulum vær og láta þau heitu hörmúnganna vötn hefja örk vors hjarta til Drottins og honum nálægjast. Min augu hef eg

til Drottins, segir Davíd í Psálm. 25. Item' í Psálminum 120, eg hélt mér til Drottins í minni nevd, eg hrópadi og hann bænheyrdi mig. Hjørturinn af hundum eltur flýr stundum sjálfkrafa til mannsins; svo reka og mótlætíngarnar margann þann til Kristum, sem eckért ádur um hann skeitti; því hvert skyldum vér annars flýa? hann rekur engann þann frá sér sem til hans kémur; hann hefur og alla hluti nóga, hvad sem oss brestur; séum vér naktir, þá vill hann klæda oss kyrtli réttlætisins og møttli hjálprædisins, Es. 61. Erum vér húngradir, þá er hann þad sanna lífsins braud, sem af himnum er ofan komid, og heiminum géfur líf, Jóh. 6. Erum vér þyrstir, þá er hann brunnur hjálprædisins, svo hvør hann dreckur af því vatni, sem hann géfur, hann mun ei þyrsta ad eilífu, Jóh. 4. Erum vér fátækir, þá er hann Gud alleina ríkur sem á himin og jørd og allt hvad þar er inni. Erum vér veikir, þá er hann Drottinn vor grædari, Ex. 15. Erum vér sem villuráfandi saudir, þá er hann vegurinn, sannleikurinn og lífid, Jóh. 14. Erum vér ecki neitt í neinu, þá er hann allt í øllu. Leitum því Drottins strax í mótlætinu medan hann er ad finna, Es. 55. Hans høndur eru sem segul-steinn, er med krossins áþreifíngu sigrar og dregur vor járn-hjørtu ad sér.

Þridja reglan: verum audmjúkir, medkénnum strax sem mótlætid kémur, ad vér séum þess maklegir; segjum med Davíd, Ps. 119, fyrir gódu vard mér þad Drottinn, ad þú lítilæckadir mig, svo ad eg lærdi þínar réttlætíngar. Margir mundu reisa hærra kambinn, ef sarg krossins þrycki þeim

ecki niður, og gjørði þá vanmegna til ýmsra synda, með þita hormúnganna. Hvar fyrir líðum vér? vegna syndanna, það er þá nóg orsøk til auðmýktar, að vér líðum fyrir glæpi vora. Guð straffar vorar heimuglegar syndir með opinberum krossins svipum. Það er ecki ærið gott merki að vera fyrir utan aga Drottins. Þar sleppir ecki faðirinn barni sínu órefstu, sem hann stígur fram yfir glæpi þrælsins, einkum sjái hann ei lagfæríngar von. En hvar fyrir? af því hann hefur meiri rækt á barninu; Hvørn þann Son sem Faðirinn elskar, þann agar hann og typtar, en ef vér erum án typtunar, þá erum vér hjá-børn, en ecki synir, segir Páll, Ebr. 12. Því auðmjúkari sem vér líðum, hvert sem það er heilsu-veiki á oss eður áslvinum vorum, ørbyrgð, grasbrestur, óveðurátta, eður hvað annað, því fljótari verður Faðir gjæðskunnar að létta af oss hrísinu, og hjálpa oss sem fyrst úr þita ángistarinnar, og gefur oss að meiga búa síðar við forsælu og svølunar-blæ vellíðunarinnar. Svo hardna nú þessir auðvyrðilegu tíguisteinar í ofni og eldi mótlætínganna til lifandi steina, 1 Pét 2, að þeir verða ecki fyrir nockurt hørmúnganna regn aptur sundur losaðir.

Fjórða reglan, eptir hvørri vér skulum skicka oss, ef Drottni þócknast að láta oss reyna þita mótlætinganna á þessu sumri, er, að biðja og andvarpa til Guðs; þegar þú typtar þá, þá hrópa þeir, segir Esajas, Cap. 26. v. 16. Strax sem lærisveinarnir komu í lífs-háskann, þá hrópuðu þeir: Herra! hjálpa þú oss, vér forgaungum, Matth. 8. Því hafa hinir gømlu sagt: hvar ecki er kross

og mótlæti, þar er eingin réttskickuð bæn. Sá sem er meistarinn til að hjálpa, Es. 36. 1, vill þó vera beðinn um hjálp, og má það sýnast minnst verdt að leggja það til af sinni hálfu sér til hjálpar, að biðja Guð um hjálp, þar hann hefur lofað að bænheyra á neyðarinnar tíma, og hans mýskunsemi er sem regnið á þerri-tímanum, Syr. 38. En svo vér verðum vissari um bænheyrsluna, skulum vér læra fyrirfram að biðja. 1. Skynsamlega; svo sem oss er ómissandi að líða mótlætið, svo er það og ecki verdt að afbiðja þess hita, nema løgð sé undir eins bænheyrslan í vald og vilja Guðs. Biðjum því heldur optar um þolinmæði og gott umburðarlyndi, kraft og styrk til að géta þolað Guði til dýrðar og oss til velferðar; en um linun og léttir skal maður með fororði biðja, svo gjørði Jesús sjálfur: Þó ecki minn, heldur verði þinn vilji. 2. Biðjum auðmiúklega, því auðmiúka ønd agtar Guð mest. Þér hefur alltíð þócknast að bænheyra þá auðmiúku og lítilátu, sagði Júdith, Cap. 9. Eg voga að tala við Drottinn, eg sem þó er mold og aska, segir Abraham, þá hann var að biðja fyrir Sódoma, Gen. 18. Þér Drottinn, heyrir rettlæti til, en vér megum skammast vor, segir Daniel, Cap. 9. 7. Auðmýkjum oss undir volduga Guðs hønd, svo hann uppheffji oss á vitjunar tíma' 1. Pét. 5. 6. 3. Biðjum heitt og alvarlega. Guði mislíkar sú bæn, sem er án andaktar; hvað stoðar það buldur varanna, ef hjartað þegir, segir Augústínus. Þú heyrir ecki til þín sjálfur, og þó viltu að Guð heyri þig. Verið glóandi í andanum, segir Páluß. Biðjum svo heitt, að vér gétum ei betur.

Ef Guds hjarta á að komast við, þér til mýkunar, af þinni bæn, svo lát þitt hjarta komast við af hita bænarinnar. 4. Biðjum með stöðugri trú um bænheyrsluna. Þín efasemi í bæninni gjörir mestann undandrátt á hjálpinni; það sigraði hinn ósigranda Guð í Kristó, að hin kanverska var svo trúuð, því sagði hann: mikil er þín trúa; trúin er sál bænarinnar, sé hún dauð, þá er bænin afllaus, biðjum í trúnni ekkert efandi, því sá sem efasamur er, hann er líkur sjáfarbylgju, sem er æst og uppvægð, segir Jacob, Pist: 1. 6. Hvað helst sem þér biðjið, ef þér trúið, munuð þér það öðlast, sagði Frelsarinn, Marc: 11. 5. Biðjum óaflátanlega. Prakélkni sú, sem eckjan hafði í bæninni, vann á hinum ránglátá dómara, Luc: 11. Páls biður að vér skulum biðja á öllum tímum, Eph: 6. 18. Breytum eptir Jacob, sleppum ecki Guði fyrr enn hann blessar oss, Gen: 32. Veri nú svo til, að Drottinn láti hita mótlætinganna verða oss svo beyskann á þessu sumri, að oss taki til að ómæða upp, eins og Jónam, þá grípum til þessara ráða; flýum undir þennann sjórqvíslaða Jónæ lund, sem Guð í sínu orði hefur oss plantað til hlífðar við ofhita hörmúnganna. 1. Hættum að elska hið fallvalta eptirlæti Veraldarinnar. 2. Höldum oss einasta til Kristum. 3. Verum þolinmóðir og auðmjúkir. 4. Biðjum skynsamlega, auðmjúklega, alvarlega, með stöðugri trú, og það óaflátanlega. Hitinn á sumrum er af sólunni, allar vorar mótlætingar koma frá Guði, en hann er Faðir miskunsemdanna. Menn flýa í forsæluna undan hitanum; flýum, þá mótlætis hitinn ómæðir

oss, í nádar skjólid Drottins, þar er hin hægasta sæng ad liggja sjúkur, þar er ad finna hina bestu sálar svølun; þar er Jesú sakleysis ábreida; þar eru líknar líndúkar Drottins; þar er undirdína Drottins elsku og ástar; þar er hægindi Guds nádar fyrirheita; þar er fullkomin bata von á øllum lífs- og sálar-meinum. Gud unni oss ad afstødnum hita tímanlegra hørmúnga, ad ødlast hjá sjálfum sér eilífann il og varma himneskrar gledi og huggunar fyrir Jesúm Kristum, Amen.

## 6. Hugleidíng,

### af Sædinu edur Blómstrunum.

Matth. 6. v. 28. og 29.

**Hyggid ad akursins liljú grøsum, hverninn þau vaxa, þau vinna ecki né spinna; en eg segi ydur, ad Salómon í allri sinni dýrd var ecki svo skríddur, sem eitt af þeim.**

Þad fyrsta efni til allra urta, grasa og blómstra er sædid, sem annadhvert fyrir alvitra nádar forsjón Guds, sáist í jørdina af sjálfu sér, edur því verdur af mønnum sád, rotnar svo þar um vetrat tímann, en fyrir lifandi anda edur líf, sem náttúrunni fylgir, uppvara þar af á vorin adskiljanleg grøs og blómstur, eptir hvers eins sædis tegund, svo þad mannleg skynsemi má stórum forundra sig þar yfir. Látum oss þetta gjør hugleida, og andlegar hugleidingar hér út af draga.

1) Af grøsunum má berlega sjá almætti Drottins, að hann af þurri og ávaxtarlausri jørðu framleiddi í øndverðu jarðarinnar ávexti, hefur þeim svo mørg þúsund ár, í gégnum svo marga kalda og harða vetrar tíma við makt haldið í náttúrunni, að sá ávøxtur, sem spratt af jørðunni í því fyrsta skøpunar-verki Drottins, sprettur enn nú með sama hætti til sømu gagnsemda hentugur. Þetta vitnar Jesús, talandi um síns Føðurs almætti, Jóh. 5. *Faðir minn erfiðar allt híngað til. Hann endurnýar ásýnd jarðarinnar*, segir Davíð, í Ps. 104. *Hann bænheyrir jørðina*, segir Hóseas, Cap. 2. *Hann klæðir grasið á akrinum*, segir vor Endurlausnari, Matth. 6. *Guð géfur grasinu líkama, sem hann vill, og hverju af sæðinu sinn eiginn líkama*, segir Páluls, 1 Cor. 15. *Hann kórónar árið með sinni gjæðsku*, segir Davíð, Ps. 65, og *lætur grasið vaxa á fjøllunum*, Psálm. 14. 2) Sjáum vér hér af Guðs alvitsku, að hann hefur skapað svo margar grasategundir, að eingin náttúru-spekíngur hefur enn þá gétað uppgøtvað, hvað margslags grasa-tegundir til eru, jafnvel þótt þeir hafi það stórum kostgjæft. Hver sem vill athuga allann grasanna lit, løgun og náttúru, hann mun samþykkja það Davíð segir, Ps. 104, *Drottinn, hversu eru þín verk svo mørg og stór, øll hefur þú þau með speki til sett, jørðin er full af þinni myskunsemi.* 3) Minnir jarðar ávøxturinn oss á náð og gjæðsku Drottins, sem allt þetta hefir gjørt, og því árlega viðheiður manneskjunni til gagns, gleði og eptirlætis. *Eg vil géfa þínum fénaði gras af haganum, svo þér skuluð eta og verða*

saddir, segir hann fyrir Mósen, Devt. 11, og í Ps. 104, segir Davíd: Þú lætur grasid uppspretta fyrir fénadinn, og jurtir mønnunum til nytsemdar. Svo meigum vér nú allir enn einusinni yfir þessari gjædsku Drottins í inngaungu þessa Sumars, segja med Salómoni, Próv. 27, heyid er uppvaxid, grasid er fyrir hendi, og jurtirnar safnast á fjøllunum, og med þessari sinni gjædskurikri forsjón og fyrirhyggju, sedur hann allar lifandi skepnur, og þad allt vegna manneskjunnar. 4) Skulu grøsin minna oss á, ad brúka gáfur Drottins med gódri sidsemi, audmýkt og þacklæti, en ecki med ofneitslu, edur drambsemi, svo sem vær gjætum tekid þetta hjá sjálfum oss; því annars er fyrir því ad óttast, ad Drottinn, vegna vors óþacklætis og íllrar medferdar á gáfum sínum, muni svipta oss sinni blessan, og ecki einasta þad heldur og láta oss sjálfa svo straffast, ad á oss framkomi þad hann þeim ógudlegu og vanþacklátu hótad hefur, hjá Esajam, Cap. 37, ad vér verdum líkir túngrasi því, edur heyi, sem er á ræfrum uppi, sem snarlega uppvisnar; og Davíd segir, Ps. 37, ad þeir ógudlegu muni verda snarlega upphøggnir sem gras, Item, segir hann í Ps. 92, hinir ógudlegu grænka sem gras, og þeir íllgjørda-menn blómgast þar til þeir afmádir verda. 5) Skulu grøsin minna oss á, ad vér blómgumst sífeldlega í øllum dygdum og dádum, sérdeilis í hlýdninni og þacklætinu fyrir þessar og adrar Drottins velgjørdir; ad vér, eins og Arons vøndur, Núm. 17, berum Mandel, þad er, ávexti sannrar gudhrædslu, sem er til allra hluta nytsamleg; því sómir ei vel, ad

þessir hinir daudu hlutirnir blómgist og færi ávøxt, og þad allt oss til gagns og nota, ad vér þá séum eitt ávaxtarlaust og falid tré, edur þad tré, sem ber vonda ávexti, hverju í eldinn mun kastad verda, Matth. 3, heldur eigum vér ad blómgast sem Pálma-vidur, Psalm. 92, og standa þyckvaxnir af ávøxtum andans, Gal. 5, og sannrar gudhrædslu; svo mun Drottinn lífga sálir vorar med þeim andlegu blómstrum, Cant. 2, sinnar blessunar, nádar og myskunar. 6) Skulu vor Sumar-blómstur, minna oss á þad blessada blómstrid í Saron, Cant. 2, Herrann vorn Jesúm Kristum, því hann mun enn þá á þessu sumri standa blómlegur fyrir sálum vorum í aldingardi sinnar kristni, og lystigardi sinna blessudu lifsins orda, af hverju edla blómstrinu, ad himneskir hunángs-dropar hans blessada blóds, og forþénustu kraptar til vor fljóta. Þess vegna, þá vér sjáum þann hvíta farva á grøsunum, þá minnumst hann var færdur í hvítt klædi, sér til hádúngar, en er þó raunar hvítur í sínu sakleysi, svo enginn kunni ad straffa hann um nockra synd, og hefur svo þetta blessada sálar-blómstrid vort Jesús med sínum hvíta lilju farva, afrekad oss og géfid þad rétta sakleysi sálarinnar, og hvítann skrúda dýrdarinnar. Nær vér sjáum hinn rauda grasanna lit, þá minnumst á vora blessudu og raudu sálar-rós Endurlausnarann vorn, sem allur vard raudlitur af sínu blódi, svo hann med því sama blódi þvædi af sálum vorum allar vorar blódugar syndir og íllgjørdir, og ad vér skyldum ei fyrir Guds dómi þurfa ad standa naktir af óvyrdíngu, vegna vorrar blódskuldar, heldur ad sálir vorar

kunni svo sem ad synda í blód=hafi Jesú forþén=ustu, til sæluhafnar og føðurlands, þess eilífa gled=innar Sumars. En sá blái litur blómstranna, skal minna oss á það, ad vor Lausnari var blár og blódrisa undan fjøtrum og svipum qvalaranna, vegna vorra íllgjørda, svo vér fyrir hans benjar skyldum verda heilbrygdir, Es. 43. Képpustum því vid, ad kasta frá oss saurfarva syndanna, en taka á oss himinbláann farva, það er ad breyta ept=ir bless udum lífs=reglunum Lausnarans, sem af himnum ofan til vor kominn er, svo vér skyldum gánga í hans fótspor, svo hann sídar meir gjøri oss ad einu dýrdarlegu himin blómstri, í aldin=gardi eilífrar Paradísar. 7) Skulu grøsin minna oss á, hvad veikt og fallvalt þetta stundlega líf er, því segir Davíd, Ps. 103, madurinn er um sína lífdaga, líka sem annad gras, líka sem blómstrid á mørkinni, og Esajas Cap. 40, segir: allt hold er hey, og allur þess gódi sem akursins blómst=ur, heyid uppþornar, blómstrid vísnar, því ad andi Drottins blæs á það. Þess vegna skulum vér alltíd álíta, á hvad veikum fæti þetta vort líf stendur, ei upphroka oss, ei lifa ugglauslega, ei fara óvarlega med vora heilsu og líf, því aldrei veit nær enn daudans hvassi ljár uppskér oss frá rótum, og ættum vér þá ad vera svo undirbúnir, ad oss yrdi safnad í kornhløðu Drottins og bindini lifendra á himnum, 1 Sam. 25. 8) Skulum vér láta grøsin minna oss á hvad eymdarfullt þetta líf er. Grøsin mæta stormi og hretvidri, og þá beygja þau sig til jardarinnar, sem vilji þau flýa þángad, hvadan þau hafa sinn uppruna; svo erum vér og

mørgum eymdum og andstreymi undirorpnir. Gud hefur skapad blødin og jurtirnar til ad bera af ávøxtunum hrídirnar, og menn hlada gyrdíngar kríngum aldingardana, grøsunum til skjóls. Vernd og hlífd hins almáttuga Guds er vort skjól og gyrdíng móti øllum háska, slíkum og voda; skíl mér undir skugga þinna vængja, segir David, Psálm. 17. Mannanna børn hafa traust undir skugga þinna vængja, segir hann enn aptur, Psálm. 36. Frá honum erum vér í øndverdu komnir, því hann hefur skapad, endurleyst og helgad oss; til hans skulum vér einninn flýa og oss halda í stormvidri hørmúnganna, og audmýkja oss undir hans volduga hønd, en upphefja oss med bæn og von til hans hjálprædis, huggandi oss vid þad, ad fyrir margar hørmúngar hljótum vér inn ad gánga í Guds ríki. 9) Minna grøsin oss á uppprísu vorra líkama; því svo sem sædid rotnar og fúnar í jørdunni, ádur enn þad skal hentugt til ad géfa af sér blómstrid aptur, eins verda vorir líkamir ad rotna og fúna í jørdunni, ádur enn þeir skulu verda hentugir til ad verda blómstur þeirrar eilífu Paradísar. Þetta vitnar Pálus, 1 Cor. 15, segjandi: þad sem þú sáir, lifnar ecki nema þad deyi, svo er upprísa framlidinna, þad verdur sád í forgeingilegleika, en upprís í óforgeingilegleika, þad verdur sád í vansemd, en rís upp aptur í vegsemd. Og sjálfur Endurlausnarinn vor segir, Jóh. 12: Sannlega, sannlega, segi eg ydur, nema hveiti-kornid falli á jørdina og deyi, blífur þad einsamalt, en ef þad deyr, ber þad mikinn ávøxt. 10) Ad sídustu skulu grøsin minna oss á þeirra útvøldu ásigkomu-

lag; ó! hversu lystileg eru þau fögru, og allavega litu blómstur, svo Salómon í allri sinni dýrd, var ei svo skríddur sem eitt af þeim; ó! hversu lystilegur mun verda ljómi og fegurd allra þeirra útvöldu á himnum! grösin lifna og réttast vid, af hægum varma sólarinnar, sérdeilis ef þau fá vökvaun med; þeir útvöldu hafa hid mesta eptirlæti, af elsku og kjærleika þeirrar eilífu réttlætis sólarinnar, vors Herra Jesú, sem dryckjar þá med straumum vellystinganna; hér eru þær hvítu liljur; þeir útvöldu klædast hvítum skrúda þess himneska sakleysis og fegurdar. Hér eru þær raudu rósir; þeir útvöldu eru klæddir því rauda réttlætis klædinu Jesú Kristi. Hér eru þau grös, sem kallast Sólseqvia, edur Sólfylgendur, af því þau snúa sér eptir Sólunni; þeir útvöldu fylgja eptir lambinu, hvert sem það fer. Öll grösin med sinni fegurd, svo sem dansa og leika fyrir öndvegi Sumarsins; þeir útvöldu dansa í kringum stólinn Guds og lambsins, á því eilífa dýrdarinnar Sumri; allskyns hljódfæri hljóma þar. O! þú blessada blómstrid í Saron, Herra Jesú! géf oss, ad vér á haustyrkju-degi vors dauda, finnumst svo blómgadir med ávörtum sannrar gudhrædslu og lifandi trúar, ad verdugir finnast mættum, ad verda innplantadir í þann eilífa Paradísar aldingard. Bænheyr þad, fyrir pína forþénustu, Amen.

# 7. Hugleiding,

## af Regninu.

Es. 30. v. 24.

**Drottinn mun gèfa þínu sædi Regn, hvar med þú munt sá Jördina.**

Ad sídustu, skulum vèr nú draga oss andlegar hugleidíngar af Regninu, sem er ein hin besta gáfa Drottins, af hans líkamlegum velgjörníngum. Og er þad fyrst athugaverdt, ad eg finn í heilagri Ritníngu, gétid um tvennslags regn, nefnilega: regn reidinnar, og regn nádarinnar; því hinu fyrra spáir Davíd þeim ógudlegu, er hann segir: hann mun rigna láta yfir hina ógudlegu, leyptran, eldi og brennisteini, Psálm. 11. Hvílíkt reidinnar regn, útvegadi Samúel med bæn sinni, til straffs yfir fólkid, fyrir þad, ad þad hafdi bedid um konúng, 2 Sam. 23. Þanninn lèt Drottinn rigna yfir hina fyrstu veröld, í Nóa flódi, til ad drekkja öllu syndugu holdi, og fyrir hid sama hans reidi-regn, elds og brennisteins, fyrirfórst Sódóma og Gomorra. Vid þetta Guds reidi-regn á þad skyldt, þegar honum þóknast ad láta koma óáran þerrileysis, og ýduglegs vatvidris, yfir ávöxtu jardarinnar, edur abla sjáfarins, svo hann verdur ei verkadur til notkunar, kémur svo tídum á eptir húngur og manndaudi, sem og skéd hefur í voru landi, og optar enn eitt sinn. Hin helsta orsök til þessa, eru glæpir og íllgjördir mannanna; þegar menn hafa svo lángvaranlega þád og medtekid þessar gáfur Drottins, ad þeir ecki einasta leggja honum þær aldrei einu-

sinni vel í þøck, eins og þeim væri þetta einginn gódi, edur og Gud væri skyldugur ad géfa svo almenna velgjørnínga, þó aldrei fái hann þar fyrir eitt ord til þackar; heldur og þar ad auki, eru sumir svo gudlausir ad þeir lasta þessar gáfur Guds, hæda ad þeim, og formæla; svo þad er stér nád Drottins, ad hann lætur ecki rigna yfir þá hagli og eldíngum, er þannig foragta og lasta hans nádarfulla stjórnan á hans sképnum. Lítid þenkja þessir eptir því, þá Gud sló med óvedri, fimm konúnga Amoritarum, med øllum þeirra her-fylkíngum, Jós. 10. Edur þá hann hrædi og sló Philistæos, er þeir strídu móti Israels børnum í Samúelis tíd; 1 Sam. 7. Edur þá hann sló Egyptalands ávøxtu, tré, fólk og fénad, þeirra sem forøgtudu ord Drottins, fyrir Mósen talad, Ex. 9. Ad eg nú ecki tali um sannferdug dæmi Drottins reidiregns, sem optlega hafa sídan skéd; þetta ætti nú allt ad koma oss í hug, med inngángi þessa Sumars, ad þad uppvekti hjá oss audmjúka ydrau, fyrir vanþacklæti vort, sem svo margfaldlega hefur af oss, vid vorn góda Gud, framkomid; svo ef ské kynni, ad Drottinn hefdi oss fyrirhugad ad lída refsíngar med óáran nockurri á eptirkomandi Sumri, fyrir undangengid óþacklæti og íllgjørdir, ef hann þá kynni ad snúa frá sinni reidi, vegna vorrar ydrunar og yfirbótar, og láta oss njóta síns Sonar árnanar og forþénustu, því hann er Gud mikillar þolinmædi og lánglundar géds, og snarlega ydrar hann straffsins, Ex. 34. Einsetjum oss ad þyggja aldrei svo velgjørdir Drottins, ad vér ecki leggjum þær vel í þøck, því svo segir hann sjálfur: hver

hann offrar þacklætinu, hann heidrar mig, og þad er vegurinn, ad eg sýni honum mitt hjálpræði, Ps. 50. Og ef vér svo gjørum, þá er Gud vís ad stjórna høfud=skepnunum oss svo í hag, ad jardarinnar ávextir verdi oss til blessunar og gódra nota, bædi fyrir oss, og vorar skepnur. Gud, fyrir Jesú Kristí skuld, vardveiti oss frá óþacklæti og allri synd, og láti ei koma yfir oss vort forþént straff, heldur yfirdøggvi oss, med síni blessudu nádar=regni!

Nú viljum vér athuga nádar=regnid Drottins; þad er og tvennslags, andlegt og líkamlegt; Um hid fyrra talar Esajas, Cap. 34, eg vil blessa þá, og allar mínar hædir allt um kríng, og láta rigna yfir þá í réttann tíma, þad skal vera ein blessunar=døgg. Eptir þessu nádar=regninu lángadi Esajam innilega, og því segir hann: drjúpi þér himnar hér ad ofan, og skýin rigni réttlætinu, Es. 45. Item segir hann, Cap. 64, æ! ad þú sundurslitir himnana, og kjæmir hér ofan. Þetta nádar=regn, er sjálfur Herrann vor Jesús Kristur, med øllum sínum nádar velgjørníngum; því segir David, þá hann talar um Kristí híngadkomu í holdid: ofan mun hann koma, sem døgg yfir ullarreifid, Psálm. 72. Og þetta sagdi hann af því, ad Kristí gétnadur var fyrirmyndadur med náttdøgginni, sem kom yfir gjæru Gedeónis, Dóm. b. 6. Þetta himneska nádar regnid, yfirdøggvar þá gódu jørdina, sem er gott og gudhrædt hjarta, med blessudum náttdropum himneskra huggana í Guds ordi, sem allir hafa sinn uppruna frá þeim vøkva=miklu skýum blessadra Jesú Kristí blódrign=

ínga, því hann hefur sitt blóð til þess útgéfið, að oss skyldu Guðs náðar fyrirheit prédikast, og þau hafa øll sinn krapt af Jesú blóðs úthellíngu, og í honum eru þau øll já og Amen, 2 Cor. 1. Fyrir þessa himnesku náðar-døgg, uppspretta í mannanna hjørtum allrahanda dygðanna lystileg blómstur, svo sem eru: kærleiki, føgnuður, friður, lánglundar-géð, góðgyrni, góðfýsi, trú, hógværð, bindindi, Gal. 5. Þessari náðar-døgginni rigndi fyrst, þá Drottinn sagði við vora fyrstu foreldra: Qvinnunnar sæði skal í sundurmerja høggormsins høfuð, Gen. 3. Síðan frameptir øldunum rigndi henni eins og annari nátt-døgg, með úthellíngu fórnfæringanna blóðs, og í huggunum fyrirheitanna um Messíam; en í Kristí híngaðkomu, féll hin mesta steipi-døgg Drottins náðar og elsku yfir allt mannkynið. Þá byrjaðist dag-rigníng Jesú Kristí náðarfullu dásemdar-verka, og huggunarfullu kénnínga, ásamt með blóð-skúrum hans umskurnar-sára, sem voru svo sem heilnæmar morgun-skúrir, tempraðar með hita og varma hans guðdómlegrar elsku til vor. Sú dagrigníng héldst við í allri hans pínu, og varir enn þá, í andlegann máta, í hjørtum allra Guðs barna, fyrir prédikun orða Drottins, hvar af øll sorgmædd hjørtu, fá blessaða sálar-svølun, og leskíng í hita hørmínganna. Lofað og blessað sé nafnið Drottins, og géfi oss á fyrstu døgum þessa Sumars, sem alltíð, sínar blessuðu náðar-skúrir í Sumar-gjof, sem vøkvi svo ríkuglega aldingarð vors hjarta, að í því mætti, honum til eptirlætis, en oss til farsælðar, uppspretta blómstur trúarinnar, urt bænarinnar, aldini þolinmæðinnar,

lilja lítilætisins, rós gudhrædslunnar, eyli elskunnar, mandel þacklætisins, og dúdaim vonarinnar.

Þad annad Drottins *nádar-regn*, er vort náttúrlega regn, sem hann géfur yfir vora akra og engjar, aldini og grös, þeim til frjófgunar, og sképnunum til fódurs og vöxvunar, því segir Páls, Post. Gb. 14, ad hann veiti oss mikid gott, og géfi døgg af himni, og frjóssama tíma, uppfyllandi vor hjørtu med fædslu og føgnudi; hvar fyrir og Drottinn líkir sinni myskunsemi vid þvílíka døgg, hjá Hóseam, Cap. 6. *Sú nád sem eg vil veita ydur, skal vera sem eitt daggar-ský um morguninn, og sem døgg sú sig árla útbreidir.* Og í Cap. 26, segir hann: *ef þér gángid eptir mínum setníngum, og haldid mín bodord og gjørid þau, þá vil eg géfa ydur regn á sínum tíma, jørdin skal og géfa sinn gróda.* Um þetta nádar-regnid kémst Móses svo ad ordi, Devt: 28, *Drottinn mun uppljúka sínum góda fésjód himninum, til ad géfa þínu landi regn á sínum tíma, og blessa øll þín handaverk*; og med þessum greinum verdur oss yfirbevísad ad þad er nád Drottins ad þacka, þá hann géfur regn á jørdina. Þessa ættu þeir ad gæta, á hverja eg fyrir skømmu minntist, sem gjarnir eru ad møgla á móti veduráttunni, og jafnvel einni skúr, ef hún fellur ecki þeim í hag, og vita skulu þeir þad, ad þó lángvarandi úrfélli ónýti vora lífs-bjørg og jardar ávøxt, þá orsakast þad vegna synda þeirra, og ógudlegs vanþacklætis; já þessir orsaka þad, ad Drottins náttúrlegs nádar-regns brunnar, verda stundum svo uppþurkadir, ad ecki rignir í heil-lánga tíma, svo jørdin spríngur í sund-

ur, af því þad rignir ecki á hana, eins og þar segir hjá Jeremiam, Cap. 10. 4, þeir segja ecki einusinni í sínu hjarta: Látum oss óttast Drottinn vorn Gud, sem géfur oss morgun-døggina, og qvøld-regnid í réttann tíma, Jer. 5. Pess vegna tekur nordan-vindurinn burt regnid, segir Salómon, Prov. 25. Já, þad hefur skéd, jafnvel hjá oss í þessu landi, sem Drottinn hótadi Israel, ef hann þverskalladist, og vildi ecki hlýdnast sínum Gudi, ad hann skyldi géfa yfir landid rik og øsku, fyrir regn af himni, Devt. 28. Hefur svo himininn innihaldid sinni døgg, og jørdin sínum gróda, Hagg. 1. Pá hann hefur bodid skýunum, ad ei rigndu þau yfir hina ógudlegu, Es. 5. Stundum hefur hann látid yfir einn stad rigna, en ecki annann, svo einn akurinn féck regn, og hinn annar féck ecki regn, eins og Amos spámadur ad ordi kémst, Cap. 4. O! hversu dýrmætir hafa þá ordid daggar-droparnir, þeir, hverjum gudlausir syndanna þrælar, skirrast ei vid ad formæla, þegar þeim þikja þeir ecki falla sér i hag. Mikil er nád og gjædska þess milda mýskunsemdanna Fødurs, er samt sem ádur lætur sitt blessada frjófgunar-regn, rigna svo vel yfir vonda sem góda, Matth. 5. Fordustum þessara dæmi, gjætum heldur ad því, ad þad eru fleiri enn þúsund blessanir, í hverjum daggardropanum sem Drottinn veitir oss, og dýrmætt þikir regnid á veturnar, þegar jørdin er yfir þakin med svell og snjó. Fylgjum því rádum Zachariæ Spámanns, Cap. 10, er hann segir: Þar fyrir bidjid um qvøldregn af Drottni, svo mun Drottinn gjøra ský, og géfa ydur nóga døgg til

alls gróda á jørdinni. Þá munu vorir akrar og engi medtaka blessan af Drottni, Hebr. 6. Byrdum sífeldlega fyrir oss tilgáng Drottins í øllum efnum, sem er sá, ad hvert sem oss finnst blása med edur mót, hvert sem yfir oss rignir hagl edur heilnæm vor-skúr, þá gjørir hann þad allt oss til besta, og hans ásetníngur er aldrei annar, enn ad bera umsorgun fyrir sinna barna tímanlegri og eilífri velferd.

Samlíkíngar, sem hér út af má draga eru margar og mjøg eptirtakanlegar, eins og þad, ad regnid er til þess gésid, ad þad skuli vøkva jørdina; svo vøkva og hugsvala nádar fyrirheit Drottins hreldum og ángrudum sálum, sem eptir honum þyrsta. Krapa-skúrirnar eru ad sønnu kaldar, en Sólar-varminn gjørir þær hagqvæmari til gródurfins; blessud nád og forþénusta Jesú Krísti þýdir og vermir þær hørdu hret-skúrir løgmálsins straungu hótana, fyrir nádarfullann varma sinnar elsku og Evangelii Prédikunar. Regnid ad ofan komid seidist í jørdunni og fyrir krapt Sólarinnar dragast því meiri vessar upp í loptid, sem aptur verda ad frjóssomu regni; þad blessada ordid Guds, sem Sonurinn úr Fødursins skauti hefur oss opinberad, uppdregur fyrir krapt heilags Anda, (hvern Sonurinn hefur oss gésid) ydrunar og bænar vøkva, sem aptur afrekar oss yfirsljótanlega døgg Guds fødurlegrar mýskunar og velgjørnínga. Skúrunum fylgja skinin á milli, og eptir skúr kémur skin; svo blandar og temprar Drottinn opt og tídum medlætis skin sinna barna med mótlætínganna skúrum, því sorgin og gledin verda opt samferda; krossinn

er aldrei af honum svo uppálagdur, ad þar fylgi ecki einhvør blessud línkindi med til vægdar. Regninu fylgir opt stormur; mótlætinu fylgja opt freistíngar, svo ein eymd bídur annari heim. Pá sjest hvad góð og ávaxtarsom jördin er, þá hún fær nóg regn; þá sjest hvad einn er trúadur, þolinmódur, bænrækinn, kjærleiksfullur og dygdugur, þegar steipidøgg hørmúngarinnar lemur á honum. Því leingur sem einn hlutur rignir, því hreinni og hvítari verdur hann; því leingur sem einn reynist í mótlætinu, því fremur hreinsast hans líferni frá saurugum syndanna verkum. Grøsin þúngud af regn=vætunni lúta nidur og svigna; krossinn gjørir manninn audmjúkann og kénnir honum ad lítilæcka sig undir volduga Guds hønd. Í regninu leita menn skjóls og húsa, í ángístinni leita menn Drottins. Pad er vid vindinn þurkad, sem í vætunni vøknar; hugsvolun Drottins Anda huggar þau af hørmúngunum hryggvu hjørtu. Par verda vøtn í regninu sem ádur var þurr jørd; krossinn kémur út þeim tárunum, sem ádur vildu ei gráta sínar syndir fyrir Gudi. Sólin uppþurkar þad vota, sem í regninu féll; Gud þurkar sorgar=tárin af sinna barna augum. Í dalverpunum nemur regnid helst stadar, í lítilátum hjørtum nema Guds nádar= og myskunar=straumar helst stadar. Eptir lángvarandi votvidri, er von á lángvarandi léttvidri og sólskini; eptir lángsamlegt veraldar volædi, meiga øll Guds børn búast vid sífeldu Sólar=skini þess eilífa lífsins. Eptir nærst aflidinn Vetur er nú komid gledilegt Sumar; eptir allar vorar aumu hérvistir og hørmúnganna Vetrar hørkur, mun ó=

endanlegt blídvidrl þess himneska dýrdar-Sumarsins bada ad vorum sálum. Þar mun ei steipiregn ángistarinnar oss væta, ei hagl heimsins ofsókna lemja, ei stormur freistínganna ábilja, ei kuldi hatursins kjæla, ei hiti mannraunanna brenna, ecki svækja veraldarinnar vasturs fyrirglepja, heldur mun af øllum þar komnum, øllu ángri létt verda. Þar kémur loksins þad qvídalausa Sumar, sú støduga sælan, þad skúralausa skinid, þar eru þau blómstrin, sem aldrei følna, sú sól, sem aldrei undirgengur, þad ljós, sem aldrei slocknar, sá elskunnar eldur, sem aldrei kólnar, sú gledin, sem aldrei dvínar, sú audlegdin, sem aldrei þverrar, sú heilbrygdin, sem aldrei krenkist, þar er fenginn klædnadur fyrir nakleikann, hiti fyrir kuldann, svølun fyrir þorstann, sadníng fyrir húngrid, audlegd fyrir fátæktina, hvíld fyrir lúann, ljós fyrir myrkrid, fødurland fyrir útlegdina, frelsid fyrir fángelsid, heilsa fyrir sjúkdóminn, æska fyrir ellina, lífid fyrir daudann, og eilíf óendanleg sæla, fyrir stundlega eymd og armædu.

O Jesú, þú blessada Sumar-sól, verm þú oss! þú blessada Sumar-ljós, upplýstú oss! þú blessada Sumar-blómstur, endurnær þú oss! þú blessada Sumar-døgg, svala þú oss! Medtaktu nú í nád þessár vorar litilfjørlegar Sumar-gáfur, og gjør þær þacknæmilegar fyrir þínum himneska Fødur. Géf oss ad útenda svo allar vorar æfistundir, ad oss sé því vísara, ad fá ad njóta þess eilífa dýrdar-Sumarsins, sem vér erum nær daudanum.

„Þér eilíft Gud og himneski Fadir! sé lof „og dýrd! Þér Jesú Kristi, Guds Sonur! sé heid„ur og þackargjørd! Þér, ó þú gódi heilagi Andi! „sé pris og vegsemd. Blessud sértu heiløg þrenn„ing, og þú ódaudlega eining í frá þessu og um „alla eilífd Amen, fyrir Jesúm Kristum, Amen.





# Sjö Hugleidingar,

sem lesast meiga í Inngaungu Vetrar.

## 1. Hugleiding,

af Vetrinum.

Ps. 104. v. 24.

**Drottinn! hversu eru þín verk svo mørg og stór, øllum hefur þú þeim med vísdómi nidurskipad, jørdin er full af Guds mýskunsemi.**

Forsjón og fyrirhyggja hins lifanda Guds, sem hann lætur oss sjá og formerkja í allri sinni stjórnan, er svo dásamlegur og samleiksfullur vottur hans gjædsku og føddurlegrar þolinmædi vid oss mennina, ad eckért manns hjarta, sem þad réttilega og med gaumgæfni athugar, kémst hjá því ad upphrópa af stærstu forundran þar yfir med framsøgdum Davíds ordum: Drottinn! hvørsu eru þín verk svo mørg og stór. Á þessa hans guddómlega forsjón minnir oss nálægur tími, á hverjum vér megum medkénna, ad hann vísdómslega hafi því nidur skipad, ad vér høfum enn einusinni uppbyrjad einn Vetrar tíma, eptir afstadinn gledilegann Sumar tíma. En hvad er í þessu helst adgjætandi? Guds

føđurleg forsjón og fyrirhyggja, sem berlega hefur auglýst sig á øllum hlutum bæđi á himni og jørđu á þessu Sumri; því himininn og jørđin standast fyrir Guđs krapt, segir Pétur, 2 Pét. 3, 5. Og svo sem hans blessuđ forsjón hefur nú øllum hlutum stjórnađ oss í hag, svo látum vort þakklæti í inngaungu þessa Vetrar vera međal annars helst í því innifaliđ, ađ yfirvega oss til þakklætis uppørfunar, hvílíka umsorgun hann hefur boriđ fyrir oss á undanfarandi, ber enn þá fyrir oss á yfirstandandi, og mun bera fyrir oss á eptirkomandi tímum. Guđ styrki oss hér til međ sinni náđ í Jesú nafni, og láti þetta verđa sér til dýrđar, oss til farsælđar og blessunar andlegrar og líkamlegrar, tímanlegrar og eilífrar, Amen.

Ef vér viljum athuga Guđs føđurlega forsjón viđ oss á undanførnum tímum, þá lítum lengra fram, enn til þeirra tímanna sem nærstir hjá liđu. 1.) Hvør bar umhyggju fyrir oss áđur enn vér vórum til? Davíđ svarar hér uppá og segir: þín augu sáu mig þegar eg var enn nú ecki skapađur, og þessir hlutir voru allir skrifađir í þína bók, Psalm: 139, þađ er, hann hefur laungu fyrr, áđur enn grundvøllur Veraldarinnar lagđur var, uppteiknađ og ályktađ í bók sinnar eilífu forsjónar, ecki einasta hver vera skyldi sá seinasti dagur vors lífs, heldur hvađ yfir oss skyldi koma á hverjum degi, hvenær vér skyldum myndast í móđur lífi, hversu oss skyldi þar líđa, hvenær þađann útfara, hvađ á vora daga skyldi drífa í þessu lífi; hvert vér skyldum verđa ríkir, hvert fátækir, hvert og hvenær búa viđ međ-

læti edur mótlæti, hvad lánglífir, hvad skamlífir vér skyldum verda, því sagdi hann vid Kónginn Cyrum, Es: 45, eg kalládi þig med þínu nafni og nefndi þig, þá ed þú enn þecktir mig ecki, þad er ad segja, ásetti ad láta þig verda konung, og þessi spádómur segja þeir lærdu, ad hafi verid framflutt-ur af Esaja, 200 árum fyrir Cyri fæding; 300 árum ádur enn Jósías kóngur fæddist, kalladi Gud hann med sínu nafni, og sagdi hann skyldi aptur helga altarid í Bethel, 1 Reg. 13. Svo hefur þá Gud í himninum fyrir laungu ályktad, ad þad skyldi yfir oss koma, sem vér høfum á umlidnu sumri reynt, hvert oss þókti þad blídt edur strídt, þar fyrir er gott øllu því ad taka, sem hann vill vera láta.

2.) Eins bar hann umhyggju fyrir oss í fædingunni, því segir Salómon: allir hlutir hafa sinn vissann tíma, tími er til ad fædast; þú minn Gud útleiddir mig af minnar módur lífi, Pred: 3. Þad dásemdar verk Guds forsjónar høfum vér opt mátt sjá og tilspyrja á umlidnu sumri, yfir hverju øll verøldin má dádst, og falla í forundrán, jafnvel þó þad sé ad litlu lagt, af því þad skédur daglega. En hver er svo blindur, hann sjái þar ecki augljósa Guds tilhlutan? hvad gétur módirin tilhjálpad? og flestar á medal vor til þeirra starfa kosnar, kunna lítt ad því verki, svo allt fari vel; hver er þá ljóssmódur hendin hollust? þad er þín hjálpar- og myskunar-hønd, minn herra og minn Gud! Rachel dó af barnburdi, þó var Benjamíns ættlidur sá helsti, Gen. 35. Hversu mikla ásókn mun Djøfullinn ecki hafa ad

drepa þau børn í fædíngunni, sem hann gruna mundi ad Guds Kristni kynnu verda til uppbyggíngar? hversu mundi fara ef Guds forsjón sæi þá ei best til? honum einum er þad ad þacka, ad þá er allt vid høndina sem medþarf handa barninu, og hans Englar ad taka þá sképnu strax í vøktun, hverja þeir eiga ad bera á sínum høndum, ad ei steiti hún fót sinn vid steini.

3.) O! hvad náqvæmlega leit hans blessud forsjón til vor í úngdóminum og uppfóstrinu, þar um meigum vér allir segja med Job, Cap. 10, Þitt tillit (adgjætni) hefur vardveitt minn andardrátt. Einninn segir David í Ps. 22, Þú varst mitt hjálpar traust, þá eg var enn nú á minnar módur-brióstum, þú ert minn Gud allt í frá minnar módurqvidi, Guds myskunsemi var sú ljósmódir sem tók oss fyrst í skaut, og ærid skamt nádi forsjón vorra foreldra, ad vakta oss fyrir øllum Djøfulsins skadsemdum, er hann lagdi í veginn fyrir oss á skeidi vorrar æsku. Til ad minnast þessara Guds velgjørninga eiga sérhver tímanna úmskipti ad uppørfa oss, svo vér med þess háttar heiløgum Hugleidíngum, þøckum fyrir og endum vel þá umlidnu, en helgum og blessum þá eptirkomandi tíma.

4.) Þessari sinni blessadri umsorgun hefur hann sídan allt til nálægs tíma framhaldid vid oss, og enn þá á næst umlidnu sumri, breytt vid oss, sem einn elskulegur fadir vid sín ástkjær børn. Hann ól oss fyrir sálum vorum ad þær skyldi aldrei á bord bresta, heldur skyldi þeim sífeldlega svalad verda á hans myskunar-straumum, og þær

skyldu verda endurnærdar med því himneska manna, hans blessudu lífsins orda; hans forsjón var yfir vorri næríngu, hendlun, útréttíngum, og øllu því vér tókum oss fyrir hendur ad gjøra; hann sendi oss blessan af himninum, hann gaf ávøxt á jørdina bædi fyrir oss og vorar sképnur, hann sendi oss blessan gégnum hafid úr ødrum løndum, hann færdi og flutti hvern einn af øss til þess stadar, hvar vér søfnudum hans blessan til vor; hann flutti oss og sínar gáfur med oss yfir allann háska og torfærur slisalanst dag eptir dag. Hversu margur hefur ydúglega med vodaleg verkfæri høndlad, já, og þad stundum mjøg óvarlega? en alls enginn edur mjøg fáir skadad sig; mundi þad vera vorri varfærni ad þacka? nei, lángt frá; heldur Guds fødurlegri forsjón og adgjætslu, og þad midt í því vér vórum ad módga hann og styggja, bædi med vitanlegum og óvitanlegum illgjørdum vorum. Hver skyldi ei komast vid í sínu hjarta af yfirvegan þvílíkrar Guds gjædsku og fødurlegrar fyrirhyggju, andvarpa af hjarta og segja: **minni er eg Drottinn øllum þínum myskunsemdum, er þú lætur fram vid oss koma.** Item: **hvad skyldi eg Drottni endurgjalda fyrir allt þad gott sem hann hefur gjørt vid mig, lof seig þér ønd mín Drottni.**

5) Nú, ef vér athugum þann yfirstandandi tíma, þá byrjum vér einn vetur í dag; en í hverju ásigkomulagi edur standi? eg svara, undir nádarfullri stjórnan hins gjædskuríka Fødurs, allir heilir og heilbrygdir, ásamt allir vorir ástvinir; vor hús og heimili eru enn þá, og allar vorar sképnur undir hans blessadri vernd og varatekt. Því sem hann

útdeildi oss í Sumar, høfum vér safnad í vorar kornhlødur; blessad sé nafnid Drottins! hér yfir meigum vér fagna, ad hann er óumbreytanlegur í sinni gódgyrni og myskunsemi; en ef nockurn brestur, svo hann hefur ei allt fyrir augum sér, þad hann fyrir sitt hús medþarf til Vetrarins, þá er gott vid þad ad una, ad Gud vill svo hafa þad; verdi hans vilji! vørpum því allri vorri áhyggju uppá hann, hann mun því øllu vel til vegar koma. Vor himneskur Fadir veit, ad vér þurfum alls þessa vid; þad er vel, þó hann geymi vort bjargrædi, þar til vér þurfum á ad halda; hans hægri hønd er ecki svo stutt ordin ad hann kunni ecki, og hans myskunar hjarta ecki svo hardt, ad hann vilji ecki hjálpa; á degi hjálprædisins hjálpar hann oss; þad er miklu betur geymt hjá honum enn oss, sem hann ætlar oss og vorum ad lifa af; verum ad eins ánægdir med þad sem yfirstendur; enginn af oss er svo ørbyrgur ad hann eigi ecki Gud ad, og þad rídur á mestu, **því nær vér ad eins høfum hann, þá hyrdum vér hverki um himin né jørd**, Ps. 73, medan hans hønd heldur fastlega med oss, og hans armleggur styrkir oss, Ps. 89, þá er nóg; því þad kémur ecki af austri né vestri, ecki heldur af fjøllunum í eydimørkinni, Ps. 75, sem vid eigum ad bjargast vid, heldur kémur þad ad ofan frá Fødur ljósanna, Jac. 1, og vor hjálp kémur af Drottni, sem skapad hefur himin og jørd; ef vér óttustum hann, þá lætur hann oss ecki lída skort til lengdar, Ps. 34.

6) Hans forsjón mun og líta til vor á eptirkomandi Vetri; engin orsøk er til þess ad vér ber-

um qvída fyrir honum; sá konúnglegi Spámaður, Davíð, hefur opt, og í einum sínum Psálmi, tuttugu og sex sinnum ítrekað þessi orð: hans myskunsemi varir eilíflega, Ps. 136. Ecki gjørir Davíð þetta af ráðleysu, heldur af ásettu ráði heilags Anda, svo allir skuli hafa í minni þessi orð á øllum tímum og tíma-mótum; hans myskunsemi hefur varað, varir enn, og mun vara, yfir úngum og gømlum, ríkum og fátækum; eins og það sólin hefur skinið, skín enn, og mun skína, og þreitist ecki, heldur gleður sig að hlaupa sinn veg, Psálm. 19, svo er Guðs myskunsemi, hún er hvern morgun fersk og ný; það skal vera mín gleði að gjøra þeim gott, segir hann hjá Jeremíam, Cap. 32 sá straumur þverrar aldrei, það ljós slocknar aldrei, þessi vor Guð hann er vor Guð alltíð og æfinlega, Ps, 42. Hvar fyrir qvíðum vér þá Vetrinum? þó vort ástand kunni í nockru, já, í mørgu hjá sumum, líta út til vesældar; hvar fyrir syrgir þú þá? hví qvíðir þú þá? fyrst Guðs myskunsemi varir eilíflega. Þegar eg yrði þess var, að Guð léti af að vera myskunsamur, léti af að stjórna, vernda, hjálpa og blessa, þá vilda eg fyrst qvída fyrir alvøru, þá vilda eg bera mig hørmulega. Þar fyrir, þá þú, ó maður! hugsar fyrir Vetrinum, þá seig eins og Abraham: Guð mun sjá fyrir fórninni, Gen. 22. Eins geck það Jacob, þá hann qveið fyrir dýrtíðinni; hann vissi þá ecki að Guð var búinn að setja Jóseph í veldin, svo hann gjæti hjálpað uppá hann, Gen. 42. Guðs Sonur spurði: hvar kaupum vér brauð, svo vér fáum þá mettað? en hann vissi vel hvað hann vildi gjøra;

Gud veit nóg ráð til að hjálpa þó vér vitum ecki. Pessir og þvílíkir þánkar eiga að koma upp hjá oss, þá vér förum að qvída fyrir seinni tímunum. Þegar eg hugsa til Vetrarins og hversu lítinn forða eg hefi fyrir mitt hús, þá ætla eg að segja með Davíð, Ps. 31. **Drottinn, hversu mikil er þín góðgyrni, hverja þú hefur geymt þeim sem þig óttast.** Gjæðska Guðs er opt og tíðum hulin í lángann tíma fyrir oss og þar af orsakast vor qvídi, og vílsemi, en á sínum tíma auglýsir hún sig svo lystilega, að það er unun að reyna og sjá. Pú segir opt: **hver mun velta fyrir oss steininum af grafar-munnanum,** en þá sá tími kémur, sem þú qveidst mest fyrir, þá sjer þú að steinninn er afveltur. Hverjum viltu befala þína sál í dauðanum? þú segir: mínum Herra Jesú Kristó. Pú svarar rétt; eg **befala mína sál í þínar hendur, þú trúfasti Guð,** segir Davíð, í Ps. 31. Ef vér vogum að befala honum í dauðanum svo dýrmætann fjársjóð, sem sálin er, því vogum vér þá ecki að ábyrgjast honum í lífinu, það miklu minna er verdt; þar fyrir, sá Guð sem híngað til hefur alið önn fyrir oss, og greidt alltíð dásamlega úr vorum vandrædum með sinni guddómlegri speki og almætti, hann mun og vel sjá fyrir voru ráði á eptirkomandi Vetri; því skal eingu qvída, þó óvænlega þyki áhorfast í einhverju; þóknist honum að láta oss lifa, þá lifum vér fyrir það medal, sem hann finnur fyrir gott að hjálpa oss með; en þóknist honum að láta oss deya, þá deyum vér Drottni, svo hvert vér lifum eða deyum, þá erum vér Drottins. Komi það uppá sem koma vill; hann vill þá svo hafa það; það er

best sem hann vill; látum oss nægja þad tilstand, sem Gud setur oss í, hvert sem þad verdur medlæti edur mótlæti; spyrjum ecki eins og Petur: hvad skal þessi, heldur segjum med Davíd: eg vil þegja, og ecki mínum munni uppljúka, af því þú gjördir þad, Ps. 39, höldum med Gudi, en móti sjálfum oss; syngjum og segjum af hjarta: verdi ætíd hvad vill minn Gud, edur med Páli, 2 Cor. 12. Fyrir því em eg med gódu trausti (þad er, vel ánægdur) í breiskleikanum, í forsmáninni, í neydinni, í ofsókninni; Item med Davíd: befala þú Drottni þína vegu, og vona á hann, hann mun því vel til vegar koma. Sá sami mYskunsemdanna Fadir gefi oss, ad þessi eptirkomandi Vetur verdi oss öllum blessadur og farsæll, snúi frá oss allri ólucku bædi lífs og sálar, en sendi oss heppni og hamíngju til allra útréttínga vorra, hann uppfylli alla vora naudþurft, eptir sínum dýrdar ríkdómi í Drottni vorum Jesú Kristó, Amen.

---

## 2. Hugleidíng,

### af Túnglinu.

Psálm. 136. v. 1. og 9.

**Þackid Drottni því hann er gódur, og hans mYskunsemi varir eilíflega; honum sem gjördi Túnglid og stjörnurnar ad stjórna nóttunni, því hans mYskunsemi varir eilíflega.**

Ad vexti og byrtu er Túnglid þad himin-ljós, sem

Sólunni er líkast fyrir vorum sjónum, hvar fyrir Móses segir, ad Gud hafi gjørt tvø stór-ljós, þad stærra ljósid ad stjórna deginum, en þad minna ad stjórna nóttunni, hvar hann án efa meinar Sólina fyrir þad stærra, en Rúnglid fyrir hid minna ljósid. Gudi sjálfum líki eg vid Sólina, og svo gjørir Malachías, Cap. 4, því hann er lángtum fegri og dásamlegri, enn allar þær sképnur, sem hann skapad hefur, jafnvel þó þær séu allar harla gódar af honum gjørdar. En nærst honum kalla eg ad gángi sanngudhrædd manneskja, og þad fyrir þá orsøk ad Ritníngin kallar þá gudhrædda, brúdur Kristí, Jóh. 3. Børn edur Syni Guds, Jóh. 1. Erfíngja Guds, Róm. 8. Samarfa Kristí, 1 Pét. 3. Brædur Kristí, Jóh. 20. Lidi og limi Kristí, 1 Cor. 12. Musteri heilagrar þrenníngar, Jóh. 14, og fæddir af Gudi, Jóh. 8. einmitt fyrir þessar samlíkíngar.

Þess vegna er Túnglid eitt hid fegursta ljós, ad Sólarinnar byrta stígur ofan til þess og yfirlýsir þad; manneskjan er þess vegna ein veglegasta sképna Guds, ad sú blessada réttlætis Sól Jesús, sté nidur í hennar hold, og samteingdi því sína guddómlega náttúru. Og vilji nockur segja, ad Englarnir gángi nærst Gudi ad vegsemd og sóma, þá hefur þó Kristur ecki þá, heldur Abrahams sædi uppá sig tekid. Túnglid er eitt hid minnsta himintúngl, en sýnist stórt søkum þess þad er svo nálægt oss; hvar fyrir skyldum vér ecki álíta, og athugasamlega yfirvega vort eigid ásigkomulag, sem erum nærstir sjálfum oss, og gjæta þar ad, ad vér, vegna Adams syndar, vórum ordnir sú minnst verda og

vidurstyggilegasta sképna fyrir Guds augliti, og þad erum vér enn þá af náttúrunni til, børn reidinnar, Eph. 2. Syndarinnar þrælar, Jóh. 8. Ef vér nálægjum oss ordi Drottins, þá sjáum vér oss, fyrir Kristí forþénustu, nærsta stórann veg og vyrdíng hlotid hafa, þar vér nú fyrir trúna á hann erum Guds børn ordnir og brædur Kristi, Hebr. 2. Samborgarar heilagra og heimamenn Guds, Eph. 2. Synir ljóssins, Eph. 5. Heiløg þjód, konúnglegur kénnimannskapur, 1 Pét. 2. Og sjáldur Guds, Zach. 2. O! hvílíkur vegur og vyrdíng er þetta! Túnglid hefur sína birtu af Sólunni; ef hún skyni ecki á þad, þá væri þad øldúngis dymmur líkami: enginn fær vorn skilníng upplýstann í sáluhjálplegri þeckíngu Guds og hans orda, nema Sól rettlætisins Jesús, sem upplýsir alla menn er koma í þennann heim; hvad loflegt er, hvad gøfugt, hvad ástúdlegt og gott er, í, med, og hjá oss, þad er af honum, og af hans fyllíngu høfum vér þad medtekid, og fengid nád fyrir nád, því í honum erum, lifum og hrærumst vér, Aet. 17. Og hann er oss af Gudi gjørdur og géfinn til vísdóms, helgunar og eilífrar endurlausnar, 1 Cor. 1. Túnglid upplýsir þá myrkvu nótt; gott nafn og líferni eins sanngudhrædds kristins manns, er sem eitt skridljós, eptir hverju hinir adrir eiga ad regla sínar gjørdir. Túnglid vex og mínkar, edur réttara ad segja, þess ljómi og byrta; kristnin Guds hefur frá upphafi ýmist mínkad fyrir offóknirnar, edur vaxid fyrir nádarfullt yfirskyn gudlegrar hjálpar og vidurkénníngar; hvad hid sídara vér eigum hjartanlega ad þacka þeim himneska ljósanna Fødur, ad enn nú til nálægs

tíma vidheldur hann sinni kristni hjá oss med réttri kenníngu Guds ords, og reglulegri tídkun sacramentanna; blessad sé hans nafn ad eilífu, og géfi ad hún lídi einga formyrkvun offsóknanna né villulærdómanna á þessum Vetri, heldur ad hún blómgist sem einn plantadur Guds víngardur, allt til veraldarinnar enda! ekkért himin-túngl gengur fljótara til austurs enn Túnglid á móti Sólarinnar uppruna; fetum nú øll vor fótspor hugrenníngarma, verkanna og ordanna á veg fyrir blessada réttlætis Sólina Jesúm Kristum, á eptirkomandi Vetrartíma, og byrjum þann gáng strax í øndvegi Vetrarins, svo hann verdi álltíd á vegi fyrir oss, oss til hjálpar og hamíngju, hvad sem oss áliggur. Hann er vegurinn, sannleikurinn og lífid, Jóh. 14. Bidjum hann ad greida vorar fætur fram á veg fridarins. Verum hradfættir á vegi dygdanna og mannkostanna; fetum fúsir og viljugir til þeirra stadanna, hvar Guds ord er kénnt og prédikad, þá mun Jesús upprenna oss sem ein blessud nádarsól í sínu ordi, og vor dosin og ískeld hjørtu, med sínum nádar-il, og varma sinna huggunarfullu fyrirheita myskunsamlega þýda og verma, og upp af þeim draga heitann ydrunar- og bænar-vøkva og varma. Túnglsins formyrkvan orsakast þar af, ad þad geingur inn í jardarinnar skugga, verdur svo jørdin midt á milli þess og Sólarinnar, hvar fyrir hún gétur ei á þad skynid; látum ei þad jardneska og forgeingilega byrgja fyrir oss Jesú nádar-ljóma; þegar hjartad er fullt af gyrnd og lysting til þess jardneska, þá er þad rétt formyrkvad, svo sú sál sjer ei fegurd síns Lausnara; allra síst skyldu vor hjørtu

verda formyrkvud af gyrnd og lysting til myrkranna verka, heldur sífeldlega vera upplýst med skýlausum ydranar anda; þegar Túnglid geingur austur um, á bí vid Sólina, þá beigir þad gáng sinn til jardarinnar, svo sem þad vilji veita henni lotníngu um leid; verum alltíd lítilátir fyrir augliti manna, en allrahelst audmjúkir í augliti Guds, audmýkjum oss undir hans volduga hønd, svo hann upphefji oss á vitjunar-timanum. Hvenær sem vær nálægjumst hann í hans húsi undir Guds orda heyrn í vorum bænum og andvørpunum, þá kom- um fram undir eins med einn sundurknosadann anda, og harmþrúngid hjarta. Þó Túnglid sé í mesta máta upplýst, þá er þad þó alltíd hálf myrkt og dymmt; ætlumst ei til, ad géfa Gudi hálft hjart- ad vort, en láta þad hálft vera yfirskyggt med svartri búksorg, og áhyggju þessa forgeingilega lífs, heldur elskum hann af øllu hjarta, allri øndu, øllu hugskoti, Matth. 22. Því ecki getum vér undir eins Gudi þjónad og Mammóna, Matth. 6. Túnglid verkar miklar umbreytíngar, bædi í vedrinu, sjónum, og líka á jørdunni, og optast orsaka þær kulda og mýkindaleysi; en Sólin þýdir þad allt og temprar med sínni verkan; vort tímanlega lif er aldrei stødugt, heldur hefur á sér sífelda veltu, og optast til andstreymis og baráttu, en Jesús, med sínum stødugа nádar varma og kroptugri líknar verkan, mýkir og linar øll vor bágindi, og géfur freistíngum og mannraunum þann enda, ad vér fáum stadist, 1 Cor. 10. Hann lægir sjó og bylgjur mótlætinganna; hann þýdir kulda og hretvidri heimsins ofsókna; hann hastar á storm freistínga-

anna; hann sefar allt andstreymi med sinni hjálp og huggun. Drottinn sjálfur gêfi mí, ad Túnglsins verkanir allar stjórnist oss í hag og til blessunar á eptirkomandi Vetri, bædi fyrir oss og vorar skêpnur, svo vêr verdum af øllum Guds handaverkum blessadir, hann mýki og tempri alla óvedur-áttu, og vægi oss fyrir hagli og hrídum, stór-hardindum og land-plágum, skruggum, eldíngum og vatns-edur snjó-flódum, samt allri annari ódáran. Hann veri lofadur og blessadur fyrir nádarsama stjórnan þessa himin-túngls á umlidnu Sumri, og fyrirgêfi oss óþakklætid vort og hyrduleysid, í því ad taka á móti hans velgjørníngum med skyldugri vidurkénníngu hans mykunar og dásemda, sem hann hefur í því og øllu ødru oss gott gjørt, og láti oss ecki á eptirkomandi Vetri gjalda vors stóra óþakklætis med því ad svipta oss þvílíkri sinni himneskri nádar-stjórnan, heldur vyrdist ad framhalda þeirri sømu nád og gjædsku eptir ríkdómi sinnar dýrdar í Drottni vorum Jesú Kristó, hverjum ad sé dýrd og vald ad eilífu, Amen.

---

## 3. Hugleidíng,

### af Myrkrinu.

Jób. 12. v. 35.

**Gángid þá stund þér hafid ljósid, svo myrkrid høndli ydur ecki, hver sem gengur i myrkrunum, veit ecki hvert hann gengur.**

Eg tilbý ljósid og skapa myrkrid, segir Gud fyrir

Esajæ spámanns munn, Cap: 42. Sú er radstöfun hins alvitra Guds, ad sá myrkvi vetur skal árlega fylgja á eptir því bjarta sumri. Í vor heyrdist þar eitt gledi hróp á medal vor: veturinn er umlidinn, en sumarid tekur ad nálgast, Cant. 2. v. 11. Enn nú er þad umbreytt í þessa sorgarkløgun: sumarid er hjálidid, en hinn dymmi vetur er yfirkominn, sem færir med sér margann þann óhentugleika, er sumarid eckért af vissi, en þó sérdeilis myrkrid og dymmuna; þar fyrir, svo hættulegt sem þad er fyrir hinn heilskygna, ad gánga í myrkrinu án ljóssins, og svo skadvænlegt sem þad er fyrir hinn blinda án leidsagnar-manns, því þar sem hinn vantar dags-ljósid, þar vantar þennann augna-ljósid, svo er þad bædi hættulegt og skadvænlegt fyrir oss ad inngánga þann myrkva vetur án ljóss og leidsagnar þess ords, sem er ljós á vorum vegum, og lampi vorra fóta, Ps. 119. Upplýsum því hinar fyrstu og dymmu Vetrar nætur med þessu ljósi, svo munu allar adrar, ef vér því sama framhøldum, oss upplýstar verda af himneskum ljóma Guds nádarfullrar nálægdar, sérdeilis, ef vér þá ei forsómum ad upplýsa þær med lestri Guds orda og bæninni, því hjá honum eru ecki myrkurin myrkur, og nóttin má lýsa sem dagurinn, Ps. 139. Og hann er sjálfur þad ljós, í hverjum eingin myrkur eru, 1 Jóh. 1. Þá gétum vér sagt eins og Davíd sagdi: þú Drottinn ert minn lampi, Drottinn mun upplýsa mín myrkur, 2 Sam. 22. 29. Þá Ísraels fólk var á ferd í eydimørkinni, þá upplýsti Drottinn þess næturmyrkur med eldstólpanum, Exód. 13. Hann upp-

lýsi og á þessum Vetri bædi þessa nótt og allar adrar med sinni vernd og nádar nálægd, svo munum vér ei þurfa ad óttast fyrir þeirri drepsóttinni sem í myrkrunum lædist, Ps. 91, 5. Margir hrædast myrkurin eins og þeim sé í þeim meiri hásti búinn, enn í byrtunni; eu þar eru tvennslags myrkur, á hverjum menn skulu helst taka vara, ad þau skadi þá ecki.

Hin fyrstu eru syndanna myrkur; því hrædast menn þau ecki? í þeim búa þó þær vofur, sem mest er ad óttast fyrir og orsaka eilífanu sálar skada. En þetta geingur svo andsælis, ad menn óttast fyrir þeim myrkrum, sem ecki færa meira íllt med sér, enn byrtan; þvíad svo sem þar er til sú drepsótt, sem í myrkrunum lædist, Ps. 91, svo er þar og til sú drepsótt, sem um middegid fordjarfar; en þau hin sømu myrkur, sem þá mest skada og leida eptir sig eilífa drepsótt bædi sálar og líkama í þeim eilífu og ytstu myrkrunum, Matth. 25, þau hin sømu, segi eg, elska menn meir enn ljósid, Jóh. 3, og hafa svo samfélag vid ófrjóssøm verk myrkranna, Eph. 5. Nú ef vér viljum ad þessi nýkomni Vetur verdi oss blessadur og farsæll, þá ydrumst þeirra myrkranna verka, sem vér gjørdum á umlidnu Sumri, ad ei komi yfir oss í Vetur þad Davíd spáir þeim ógudlegu, segjandi: þeirra vegur mun verda harla myrkur og sleipur. Item segir Job, C. 12, ad Gud láti þá fálma svo sem í myrkri, þad er: þeir ana rádlauslega fram, því hann sleppir af þeim sinni verndar hendi. Guds Englar eru Englar ljóssins, útsendir þeim til þénustu, er sáluhjálpina erfa skulu, Ebr. 1. en hrein-

ir þeir flýa synd, ef sjá, svo sem bíflugur reiknum frá. Þeir sleppa sinni vøktun af þeim, sem segja hid vonda gott, og hid góda vondt, sem gjøra myrkrid ad ljósi, og ljósid ad myrkri; en ef Gud tekur frá oss sína vernd og vøktun sinna heilagra Engla, hversu bjart mun þá verda í kríngum oss? mun ecki hann sem er myrkra stjórnari þessa heims, Eph. 6, sæta því tækifæri, og kappkosta ad koma oss í þau ytstu myrkur. Þess vísa augu eru í hans høfdi, segir Salómon, Eccl. 2. 14, en dárinn gengur í myrkrinu, þad er, blindt áfram í andvaraleysinu og myrkrum syndanna og blindni holdsins. Einsetjum oss því ad láta vor verk og allar athafnir á þessum Vetri vera í Gudi gjørdar, Jóh. 3. 21. Eg em ljós heimsins, (segir Jesús, hjá Jóh. 8, 12.) hver hann fylgir mér eptir, hann skal ei gánga í myrkrunum, heldur skal hann hafa ljós lífsins. En hvernig er hann ljós heimsins? auk þess, ad hann med ljósi sinna blessudu orda upplýsti alla menn, sem koma í þennann heim, Jóh. 1, hefur hann lýst oss med sínu blessada og heilaga líferni, ecki einasta ad votta þar med sitt syndlausa líferni (þar einginn kunni ad straffa hann um nockra synd) edur med sinni hlýdni uppfylla vor vegna løgmálid, heldur einnig er hann ljós heimsins til þess, ad hans líferni sé oss til eptirbreytíngar; þar fyrir segir Pétur, ad hann sé settur oss til fyrirmyndar, ad vér gaungum í hans fótspor, 1 Pét. 2, því sagdi hann vid læri̇sveinana, þá hann hafdi þveigid þeirra fætur; eg hefi géfid ydur eptirdæmi, ad eins sem eg gjørdi ydur, svo skulud þér og gjøra, Jóh. 13, 15. Þess vegna, ef vér setjum

oss hans dæmi fyrir sjónir, til eptirbreytingar, þá erum vér þau réttu ljóssins børn og dagsins synir, 1 Tess. 5, þá gaungum vér ecki í myrkrunum, gjørum og eigi myrkranna verk, heldur frelsumst frá verdlaunum myrkranna. Skeitum því ecki, þó oss sýnist þeir óguðlegu komast vel af með sitt myrkra athæfi, því þessa heims tími er þeirra tími og makt myrkranna, Lúc. 22. Hvad segir Esajas, Cap. 29, 15. Vei þeim sem søckva sér djúpt frá Drottni, ad hylja þeirra áform, og hverra verk eru myrkranna verk, og segja: hvør sier oss? hver þeckir oss? heldur tøkum vara á sjálfum oss, ad ei gaungum vér í þeirra fót-spor. Látum heldur vort ljós lýsa fyrir mønnum, svo ad þeir sjái vor gódverk, og dýrki vorn Gud, sem er á himnum, Matth. 5. Þá munu ljóssins Englar vera hjá oss og vardveita oss frá myrkranna høfdíngja þessa heims, og øllum hans slægdar og véla myrkrum; svo munu vor Vetrar myrkur verda af þeirra dýrdlegri nálægd og himneskum ljóma upplýst.

Hver sem nú þessa gjætir, hann þarf ei ad qvída fyrir hinum ødrum myrkrunum, sem áskyggja opt Guds børn í þessum heimi, sem eru hørmúnganna myrkur; á þeim skulum vér einninn vara taka, svo ad ei gjørum vér Kristí kross ad ræníngjans krossi. Gud veit hvad uppá kann ad falla fyrir oss á eptirkomandi vetri! skéd getur ad vér missum vora heilsu, og þá þykir mørgum áskyggja, þegar svo fellur. Falla má, ad vér annadhvert reynum bágt á vorum ástvinum, hvad mørgum fellur ecki léttara, enn þó á þeim sjálfum lægi, þad á þeirra ástvinum liggur, edur kannské vér hljótum

ad sjá á bak þeim, og missa þeirra yndislega sambúd; þá er ecki stundum leingi þess ad bída, ad eldur, vatn, vindur, edur önnur vóveifleg tilfelli granda vorum eignum edur sképnum, og hvör kann þad allt ad upptelja, sem ad vill ama, þegar vetrar tími hörmúnganna ysirstendur? verum því ei varbúnir! kannské eitthvad af þessu hitti oss. Hvör mun nú upplýsa þessi myrkur? hvada sól edur ljós mun þeim afvenda? menn brúka ljós í húsum á þeim dymma vetrar tíma; en hvad segir Gud fyrir Davids munn: þar mun upprenna ljósid fyrir þá frómu í myrkrunum. Ps. 112. Hvad fyrir myrkur meinar hann hér? hann meinar hörmúnganna myrkur; en hvada ljós meinar hann? hann meinar ljós gudlegra huggana, því segir hann í ödrum stad, Ps. 97. þar er sád einu ljósi fyrir þann réttláta, þad er, hann er alltíd gladur í mótlætinu, af því, sá gudhræddi og frómi huggar sig alltíd vid Guds miskunsemi. Svo er þad þá almáttugur gódur Gud, sem upplýsir hörmúnganna myrkur med nád og hjälp, og burtrýmir þeim med sínum huggunum. Þó líkaminn sé í Egyptalands myrkrum staddur, þá er sálin og hjartad í síféldu Gósen landi himneskrar huggunar byrtu, fridar og fagnadar í heilögum anda, Róm. 14, þegar Guds huggun er nálæg, því hennar líf er fólgid med Kristó í Gudi. Vér keppnstum vid ad vera byrgir af ljósi undir veturinn, til ad upplýsa myrkrin med, söfnum nú undir veturinn huggunar ljósi Guds nádar lofana í vor hjörtu, ad upplýsa med þeim myrkur ángistarinnar, ef þau kunna ad koma yfir oss, svo ad ljós huggunarinnar yfirgnæfi hjá

ofs myrkur sorgarinnar, Pred. 2: og vort hrygdar myrkur verdi ad ljósi, Es. 42. Þetta befalar ofs sjálfur fadir ljósanna, Jac. 1: er hann segir fyrir munn Esaiæ, Cap. 30. 10. Sá sem geingur í myrkrunum (þad er, í hørmúngunum) og ecki hefur ljósid (þad er líkamlega huggun) hann skal vona á Drottinn, (þad er, vænta hans hjálpar og adstodar.) Item segir hann enn aptur, Cap. 58. Þitt ljós mun upprenna í myrkrinu og þokan (mótlætinganna) mun vera sem middegid.

Hugsum eptir þessu, ef ofs kunna ad mæta nockrar mannraunir, á þessum vetri, gjætum ad, hvør þad er, sem leggur þær á ofs, þad er sjálfur Gud; Drottinn deydir og lífgar, 1. Sam. 2. Drottinn gaf, Drottinn burttók, sagdi Job, þegar þó sjálfur Djøfullinn hafdi gjørt honum skada og skapraun; en Job vissi þad gat ei skéd nema fyrir Guds tillátsemi, og þar vid huggadi hann sig. Guds álag er ecki sverd dómarans, heldur hrís fødursins; því hvørn þann son, sem Fadirinn elskar, þann agar hann og typtar, Ebr. 12. Gjæt og ad sjálfum þér, hvílíkur þú ert, sem lídur, þú ert ecki myrkranna barn fyrir þad, þó þú sért í myrkrum sorganna staddur, heldur ertu bródir Kristi, Hebr. 2. Sonur og barn Guds, Jóh. 1. Já, þú ert Musteri heilags Anda, 1 Cor. 3. Þú ert ecki kastadur fyrir fætur Djøflanna, þó þér sé kastad í Mara vatn mótlætinganna, heldur ertu útbrynjadur med herlidi Engla Drottins, Ps. 34. Guds hønd gétur umbreytt þínum sorgar myrkrum í ljós gledinnar þegar hann vill, Ps. 77, hann gjørir þad og svo þegar hans tími er kominn og þér

gégnir best, og þó þér kunni ad sýnast, sem hans hugġunar=ljós sé aldeilis fyrir þér útslockid, þá vert viss um, ad vegna sinnar eldheitu elsku til þinnar velferdar, typtar hann þig og agar svo þú skulir aldrei tapast ad eilífu, því nær vér dæmumst, þá verdum vér af Gudi typtadir, segir Postulinn Páluss, uppá þad vér fordæmumst ecki med heiminum, heldur uppá þad, ad vér, ad hormúnganna myrkrum afstødnum, ødlumst fridsamlegann ávøxt réttlætisins, Hebr. 12, 11. Þú munt ecki heldur verda einn á ferd í þeim svarta sorganna Kedrons dal, allir Guds ástvinir eru þér samferda, hverra vega=bréf þar í gégnum þannig hljódar, Act. 14. Fyrir margar hrellíngar hljótum vér inn ad gánga í Guds ríki, já, sjálfur stríds=foríngınn vor Jesús Kristur, hlaut þetta ad lída og inngánga svo í sína dýrd, Lúc. 24. Og ef hann hlaut lída fyrir adra, því þá ei þú fyrir sjálfann þig? hvernig gétur þar dymmt verid, sem Sólin er á ferd? hvernig gétur hann verid nema med gladværri samvitsku, sem veit ad réttlætis sólin Jesús er í før med honum, þó hann gángi í myrkvum dal og daudans skugga, hrædist hann einga ólucku, Ps. 23. Nú er þad víst hann skilur aldrei vid þá, sem bera hans kross þolinmódlega, hversu þúngur, hversu sár sem þeim finnst hann ad vera, því hér eru hans fyrirheit vid høndina, sem aldrei bregdast ad eilífu. Hann segir hjá Esajam, Cap. 41. Ottastu ecki, eg hefi þig endurleyst, nær þú geingur ígégnum vøtnin, þá vil eg vera hjá þér, svo ad straumarnir skulu ecki dreckja þér. Item fyrir Davíds munn, Ps. 91. Eg vil vera hjá honum í neydinni, honum þad=

an útryckja og hann vegsamlegann gjøra. Pessum og ødrum þvílíkum heilagrar Ritníngar huggunar ljésum, eigum vér ad safna á hinum fyrstu Vetrar døgunum. Guds eldur og lamparnir máttu aldrei slockna í Musterinu; látum þessi ljós himneskra huggunar elda heilags Anda ætíd loga í vorum hjørtum, svo þau upplýsi sorga myrkrin vor, þá þau koma yfir oss. Í myrkrinu hvílast menn og sofa. Í hørmúngunum hvílast menn af syndanna ydju, því hver hann lídur á holdinu, sá lætur af ad syndga, segir Pétur, 2 Pist. 4, 1. Þegar myrkrunum linnir, þá kémur ljós og byrta á eptir. Eins og skinid kémur eptir skúrina, eins og Sumarid kémur eptir þennann Vetur, eins géfur Gud, ad afstødnum øllum Vetrar hørkum vorra mótlætínga, oss eitt gledilegt og hlýindafullt fagnadar Sumar í himninum. Svo er þá mótlæting þessara tíma ecki verd vid þá dýrd, sem sídar mun fram vid oss koma, Róm. 8. Hann géfi oss ad berjast gódri baráttu, behalda trúnni og gédri samvitsku allt til enda, 2 Tím. 4. Hann vardveiti oss frá vondum myrkranna verkum og styrki oss med nád síns Anda til ad íklædast herklædum ljóssins; hann upplýsi myrkur vorra hørmúnga med ljósi síns hjálprædis og huggana. Hann géfi ad vér, ad afstødnum daudans myrkrum, ødlustum eilíft fagnadar og lífsins ljós í himninum! honum sé lof og dýrd frá eilífd til eilífdar, Amen.

# 4. Hugleiding,

### af Nóttunni.

Psálm. 77. v. 3.

**Eg leitadi Drottins á minnar neydar-degi, mín hønd var um nóttina útrétt, og lét ecki af, mín sál vildi ecki láta sér hugsvala.**

Vel og vísdómslega hefur hin guddómlega speki því nidurskickad sem øllu ødru, ad svo sem hún gaf oss þann bjarta dag til vors erfidis og útréttínga, svo gaf hann og einnig þá dymmu nótt til hvíldar og hresíngar; Davíd segir, ad villudýrin hreifi sér helst á nóttunni, Ps. **104**, ecki gjøra þad nema hin grádugu villudýr ágyrndarinnar, ad brúka og láta brúka til erfidis og ónædis ýduglega þann part næturinnar sem til svefnsins þarf, hverra mysckun ad er sem þess grimma, segir Salómon, Próv. **12**, og ásælast sína þénara med ofríki, og gleyma Drottni, Ezech. **22**. Flá þeirra húd af þeim, og þeirra hold af þeirra beinum, Mich. **33**, þeir géfa ecki sér sjálfum ró, hvad þá ødrum? Davíds hønd er líka ókyrr, og útrétt alla nóttina, en til hvers? ecki til ad hremma forgeingilegt góts og maura, heldur andlegt og óforgeingilegt. Já, til ad bidja og andvarpa til Guds, til ad gráta sínar syndir og misgjørdir; hans grátur er hans fæda dag og nótt, Ps. **42**. Anna þjónadi dag og nótt; en hverjum? Gudi. Med hvada starfi? med føstum og bænahaldi, Lúc. **2**. Vel sé þeim sem vætir um allar nætur sitt legu-rúm í tárum eins og Davíd. Þó

ecki séu dúrarnir hins ángrada manns allir lángir, þá eru þeir yndislegir og hollir, þegar hann á milli þeirra er ýmist ad ákalla Gud, edur ad lofa Gud. Þad er fávitska sumra manna edur kannské edli þeirra, ad þeir hrædast eitthvad í myrkrinu, er þeir ecki hrædast í byrtunni; en ecki veit eg hvad þá er fremur ad óttast, því eins eru hreckir og vígvél hins vidurstyggilega fúla Anda oss ósýnileg á daginn sem á næturnar. En sá einasti má vera bædi myrkfælinn og ljósfælinn, sem veit sig ad vera í reidi Guds, og óforlíktann vid hann, hvers samvitska lætur hann hverki súpa sætann né sofa værann, því þeir ógudlegu flýa þó enginn elti þá, Próv. 28. Svo leingi sem samvitsku ormurinn og samvitsku eldurinn lifir, Es. 66, sefur ecki sá ógudlegi med værd. En viltu, vinur Guds! læra, hvernig þú skalt svo um þig búa, bædi á þessu qvøldi og ødrum, ad þú þurfir fyrir engum háska, engum íllum anda ad óttast, hverki vegna þín né þinna, heldur hvílast og sofa med værd undir vængja-skjóli hins lifanda Guds, Ps. 91, því hann mun ecki sifja, og ei sofa sem vardveitir Israel, Ps. 121, þá skaltu á hverju qvøldi enda daginn og byrja nóttina med heiløgum hugleidíngum. Til dæmis, í því dagurinn endar og nóttin byrjast, skaltu hugleida ad sá nærstlidni dagur sé einn sá tími, af hvers brúkun þú verdur reikníng ad standa, á sídasta degi, á hverjum allir munu ødlast eptir því sem þeir hafa adhafst í líkamans lífi, hvert þad er íllt eda gott, 2 Cor. 3. Bid svo med fáum, en þó kroptugum ordum, hvad sem þú ert ad starfa, Gud fyrirgéfníngar bædi á því sem þú hefur forsómad gott,

og gjørt vondt á þeim degi, og lofa hann fyrir sína náð og þolinmœdi yfir þér. En hafir þú gjørt nockud sem þú vissir Gudi til þægdar, þá þacka honum fyrir það, ad hann verkadi það med þér, og undir eins fyrir hans vernd og velgjørdir; þetta gétur þú gjørt og hugsad, þó ecki endi þitt erfidi med deginum. Hér ad auki skaltu befala strax undir nóttina, allt það þér vidkémur, bædi sál og líkama, menn og sképnur, hús og heimili, undir vernd og varatekt Guds almáttugs, og hans heilagra Engla. Þetta skaltu gjora, hvert sem þú ert nálægur eda fjarlægur þínu heimili, hvert sem þú ert yfirbodinn eda undirgéfinn. Þegar lídur ad þinni hvíldar-stund, skaltu aldrei láta undanlída ad lesa edur láta lesa opinberlega Guds ord í þínu húsi, á øllum þeim qvøldum sem því verdur svo vidkomid, ad allir í húsinu géti med andagt eptir því tekid, edur velflestir, svo þú þar med lockir inn í hús þitt þann sem sagt hefur, Matth. 18. **Hvar sem tveir eda þrír eru samankomnir í mínu nafni, þar vil eg vera midt á medal þeirra.** Med þessu móti fyllir sjálfur Gud bædi þitt hjartans og heimilis-hús, med sinni náđar nálægd og fylkíngum heilagra Engla, svo ad Djøfullinn og hans andar fá þar eckért plátz edur rúm ad leinast í, þér edur því til skada og ólucku. Andvarpa svo jafnframt í hjartanu med þeim tveimur sem til Emaus geingu, **vertu hjá oss Herra, þvíad qvølda tekur og á daginn lídur,** Lúc. 24. Þegar nú sá tími kémur ad þú villt leggja þinn líkama til hvíldar, minnstu þá alltíd, og lát það ei gleymast, á þitt sídasta æfi-qvøld, á þína grøf, á þinn sídasta dauda-svefn, sem þú ei veitst nema verdi sá

hinn sami, hverjum þú vilt þá sofna; hvar fyrir þér mun þykja ráð, en ecki óráð, að lesa alltíð eina stutta andláts-bæn, eður andláts-vers á hverju qvøldi, svo að sálin sé í hendi Drottins, Spek. 3, hvað sem uppá kann að koma, því þú veitst ecki hvert þér muni auðnast af þeim svefni aptur að vakna. Varastu að hafa nockurt óskickanlegt, ótilheyrilegt tal í sæng þinni, enn síður ógudlegt. Kannské þér auðnist ecki optar að tala, og er það ecki géðs viti að hafa lagst út af að qvøldi með íllann munnsøfnuð, en liggja kannské dauður að morgni. Að síðustu þá þú hneigir þitt høfuð að þínu hægindi til svefns, þá upplypti sér þín sál og hjarta með hinum líffrøptugustu andvørpunum, um allar lífs og sálar naudsynjar bæði þínar og þinna; þá skal fyrir alvøru þinn andi hitna í bæninni; leitastu við að vera fáorður, en þó gagnorður. Vittu fyrir víst, að Guðs Englar eru þá við høndina, að taka á móti þínum bænum, og bera þær í himininn, Job. 12. Já, sjálfur Jesús leggur þá við sitt myskunar eyra, og biður jafnframt með þér, og fyrir þér. Bið þú hann að vera undir þínu høfði eins og andlegann Jacobs svefn-stein, Gen. 28. Bið hann að láta sína vinstri hønd vera undir þínu høfði, en hans hægri hønd að umfaðma þig, Lofqv. 2. Bið að sálin þín fái að hvílast í þeim yndislega verndar og myskunar faðmi síns Lausnara. Komi að þér svefn-þýngsli, þá bið með sem fæstum orðum og mestu gjætni; vara þig að ei verði þér misnæli, bið þá Guðs Son að taka við að biðja, þar þú gétur ei lengur beðið. Hafðu heldur heilaga þánka, heilagar hugleiðíngar, vertu að ímynda þér gæðsku

Drottins, vid þig á deginum framkomna. Ímyndadu þér sælu himnaríkis, qvøl og pínu Jesú Krístí, og hans eldheitu elsku til þín, og svo framveigis, þar til sjálfur Gud svæfir þig í sínu verndar skauti, allt eins og módir sitt brjóst barn. Þá þú á næturnar vaknar, svo vakni þín lofgjord til Guds, sem þá vakir yfir þér; vakni þín andvarpan til hans, ad hann víki ei frá þér né hans Englar; svo hvert þú vakir edur sefur, þá sértu Drottins. Ef þig dreymir, ad þú þykist gjøra edur tala þad sem er syndsamlegt edur saurugt. svo bid Gud strax sem þú vaknar ad fyrirgéfa þér þad; þó ecki gjætir þú ad því gjørt, þá var þad samt synd; bid hann og ad vardveita þig frá, ad módga hann bædi í svefni og vøku. Ef þú hlýdir þessu, þá máttu fyrir víst vita, ad Gud býr í þínu hjarta, og þú fær þad strax sem Jacob féck. er hann svaf um nóttina í Bethel, Gen. 28, þá Gud sagdi vid hann: *Eg vil vera hjá þér og blessa þig!* hann mun þá upplýsa med sinni nálægd, sérhverja þína nótt, eins og hann upplýsti nóttina fyrir Ísraels fólki, þá þad var ofsókt af Pharaóni, Exód. 14. Ef þú bidur og hugsar til Drottins alla nóttina, eins og Samúel, í Cap. 15, þá mun hann vekja þig í hæfilegann tíma; og sjer þú þad sjálfur, hvad yndislegt, gott og sáluhjálplegt þad er, ad vera þannig bædi svæfdur og vaktur af sjálfum Gudi; þú mátt þá segja eins og brúdurin í Lofqvædinu, Cap. 5. *Eg svaf, en mitt hjarta vakti,* edur sem Davíd í Ps. 3. *Eg lagdi mig og svaf, eg uppvaknadi, því Drottinn vidheldur mér.* Ef þú, barnid Guds! vakir og sefur hverja nótt med þvílíkum þankum og andvørpunum,

þá þarftu ecki ad qvída þeirri drepsóttinni, sem í myrkrunum lædist. Eg vil tala þá til þín med ordum Salómónis, Próv. 3. Leggir þú þig, þá muntu ecki óttast, þú munt hvílast og þinn svefn mun sætur. Gud himneskur blessi og farsæli oss bædi þessa nótt, og allar adrar á þessum Vetri, svo þær verdi oss rósamar til hvíldar og endurnæríngar. Eg sagdi fyrir skømmu, ad menn skyldu á hverju qvøldi minnast á sinn sídasta dauda-svefn, þvíad sá náttúrlegi er af þeim gømlu kalladur bródur daudans, hvad ecki er ílla tilfundid, því þad er ærid margt líkt med þeim.

Gjørum svo nú, minnumst á hann, vér ætlum innan skamms ad géfa oss til svefns, géfum oss fyrr til daudans umþenkíngar. Meigi eg kalla svefninn bródur daudans, þá má eg segja, ad margt sé líkt med skyldum; líkir eru þeir ad upprunanum. Svefninn orsakast af vessa þeim er stígur upp af fædunni. Daudinn orsakast af óleyfilegri nautn vorra fyrstu foreldra. Á hverjum þeim degi sem þú etur af þessu tré, skaltu dauda deya, sagdi Gud vid Adam, Gen. 3. Því segir og Pálus, Róm. 5. Líka sem fyrir einn mann er syndin innkomin í heiminn og fyrir syndina daudinn, svo hefur til allra manna daudinn í gégnum þreyngt sér, í því allir syndgudu. Þá madur sefur, fær hann aptur vidrétting þeirra krapta, sem hrørnudu í ervidinu, og verdur því hæfilegri og frískari til ervidisins aptur uppvaknadur; eins skédur þad í daudanum; allir vorir kraptar vidréttast aptur, þá sú blessada réttlætis sól Jesús upprennur oss í upprisunni; þad verdur sád forgeingilegur líkami, segir Páll, en

uppris aptur óforgeingilegur, 1 Cor. 15. Þá madur segir, hvílikt hann af sínu ervidi; eins segir Andi Guds, Opinb. b. 14, ad þeir gudhræddu gjöri í daudanum; þeir gánga þá inn í sitt svefnhús, grøfina, og láta aptur dyrnar eptir sér, Es. 26. Þeir hvílast í Abrahams fadmi, Lúc 16. Í Jesú Kristi dýrdar fadmi. O! hversu mikil umskipti mun þeirri strídandi brúdur Kristi þykja þá ordin, eptir margfalda mædu þessa heims, þegar hún badar med eilífri unun í fridar fadmi síns brúdguma. Þó líkaminn sofi, þá vakir þó samt sálin, og hefur sínar vissar verkanir; eins þó líkaminn deyi, þá lífir sálin þess gudhrædda í hendi Drottins, hvar engin pína snertir hana, Spek. 3. Þá er úti ótti fyrir daudanum, þegar hid eilífa líf hefur vidtekid. Þá madur sefur, skeitir hann ei um hvad ádrir hafast ad í kríngum hann, þó þeir leiki, hefur hann þar enga skémtun af, og þó þeir gráti, hryggir hann þad alls ecki; eins er sá burtsofnadi, hann er kominn til fullkomins yndis í himninum, øll tárin eru þá þurkud af hans augum, gledi og føgnud hefir hann høndlad, en hrygd og sorg er burtvikin frá honum. Eilífur fognudur er yfir hans hofdi, og þess vegna skeitir hann eckért um fallvalta veru edur ástand þessa heims, Es. 63, því Abraham veit ecki af oss, og Ísrael þeckir oss ecki. Opt kémur svefninn óvart ad, og enginn gétur sagt fyrir víst á hverri mínútu hann muni helst sofna; eins kémur daudinn ad óforvarandis, og enginn veit á hverri stundu hans er helst von. Sá sem sefur, honum þykir svefninn sætur, hann fríast frá margskyns mædu og andstreymi, sem þeir, ed

vaka, verda ad þola, því segir Salómon, Préd. 5. Hver ed ervidar honum finnst svefninn sætur. Hver sem vill gjæta þess, hvad margslags hørmúngar vér hljótum hér ad lída, hvad sárar og þúngar armædu-stundir, hann mun andvarpa med Páli, Phil. 1. Eg gyrnist ad skilja hér vid og vera med Kristó; og med Simeóne: Nú láttu Drottinn þjón þinn í fridi fara. En Gud fridarins géfi øllum þeim, sem á þessum Vetri, sofna daudans svefni, ad þeir sofni sætum og sáluhjálplegum hvíldar-svefni, svo vér allir ad hørmúnganna nóttu, og daudans svefni útendudum, mættum ødlast eilífann dýrdardag í himneskum fridi og føgnudi, Amen.

---

## 5. Hugleidíng,

### af Kuldanum.

Matth. 24. v. 12.

**Med því ránglætid er ordid margfaldt, mun kólna kjærleikur margra.**

Af Guds Anda kémur frostid, segir Job, Cap. 37. Ad sönnu er þad rádstøfun, og vísdómsfull niðurskipan hins lifanda Guds, svo lengi jørdin varir skuli ei þrjóta frost og hita, Gen. 8. En samt er þad þó mannkynsins synda straff, ad sá kaldi Vetur gjørir ad orsaka ecki ad eins svo mikla visnan allra edur velflestra ávaxta jardarinnar, heldur og einninn mørg ønnur bágindi og armædu mønnum og sképnum, bædi til lands og sjáfar, sérdeilis í þessum álfum heimsins, fyrir hverjum óhægindum,

ad þeir, í þeim heitu løndunum, eru ad sønnu fríir, en eg hygg, ad þeirra hiti gjøri þeim ei minna mein, enn oss vor kuldi, svo ad um allann heiminn hefur syndin orsakad mannsképnunni eitthvad íllt, jafnvel í ríki náttúrunnar; en Gudi séu þackir ad eilífu! sem géfur oss árlega húsa- og fata-skjól, til ad útilykja frá oss kuldans meinsemdir; hann virdist og af sinni einskærri mýskun og medaumkan, ad vægja oss og vorum sképnum fyrir ofmiklum kuldum og frostum á þessum vetri, svo ad himininn verdi ei yfir oss sem járn, edur jørdin, undir vorum fótum, sem kopar, Levit. 26, vegna vorra synda og óþacklætis. Marga hita- og hlýindastund hefur gjædska Guds látid yfir oss koma á þessu sumri, en hvada þackir hefur hann þar fyrir af oss fengid? svo sem hitinn og varminn lífgadi í Sumar allar sképnur, og ávexti jardarinnar oss til blessunar og notkunar, svo er þad maklegt, vegna vorra synda og óþacklætis, þó Gud útdreifi yfir oss í Vetur hrím-frostinu sem salti, Sýr. 42. Edur þeiti sínum ís, svo sem munn-bitum, svo vér ei stadist fáum fyrir hans frosti, Psálm. 147. En vægi oss Gud og veri oss líknsamur! hann straffi oss ecki í sinni reidi, og typti oss ecki í sinni brædi, Ps. 6. Hann láti ei þær saklausu sképnurnar gjalda vors ógudlegleika! hann lét þær í Ninive njóta þess ad innbyggjararnir gjørdu sanna ydran, Jón. 5. Gjørum ydrun vorra synda, eins og þeir, og mun Gud vægja bædi oss og vorum sképnum eins og hann vægdi þeim, því hann mun ei gánga á bak orda sinna, þeirra er hann taladi, fyrir Ezechíelis munn, Cap. 18, þegar sá syndugi snýr sér, þá skal

þad ecki skada hann, þó hann hafi verid óguðlegur; og því segir Davíd, í Psálm. 130, hjá Drottni er myskunsemin, og nógleg endurlausn, og hann mun frelsa Israel af øllum syndum. En vilji menn ecki bæta sig, þá hefur hann hvatt sitt sverd, sinn boga hefur hann útspannad, og midar til, Ps. 7. En svo skadlegur sem þessi útvortis kuldi er líkamanum, svo skadlegur og miklu skadlegri er innvortis kuldi hjartans sálunni. Hverr vill furda sig yfir því, þó vorir Vetur séu kaldir, þar vér erum sjálfir kaldastir, í því sem vér eigum ad vera heitastir; þad er í elskunni til Guds og náúngans, í hverju eg hygg verøldin fari ætíd vesnandi. Fyrir allar sínar velgjørdir gyrnist Gud eckért annad af oss, enn elskuna, því þar sem kjærleikurinn er í sínu rétta standi, þar fljóta út af hønum allar dygdir sjálfkrafa; en þar sem hann er kaldur, þar eru øll dygdanna blómstur visin. Þetta sannar Páls, Róm. 13, segjandi: ad kjærleikurinn sé løgmálsins uppfylling. Item segir hann, 1 Tím. 1. Summa bodordsins er kjærleikurinn af hreinu hjarta. Allt þetta styrkir vor Lausnari segjandi, Jóh. 14. Hver hann hefur mín bodord og heldur þau, hann er sá sem mig elskar. Þar fyrir, viljir þú nú, barnid Guds! leggja Gudi vel í þøck, þær velgjørdir er hann veitti þér á umlidnu Sumri, þá elskadu hann af øllu hjarta, ecki af hálfu hjarta, ecki heimium og Gud med sama hjarta; þó ad nú þessi Vetur kunni ad verda kaldur framar ødrum, þá lát þína elsku til Guds aldrei kólna, Gud er sá ædsti gódi; eda hvadan hefur þú þá blessan, sem nú er í þínu húsi? hver gaf þér allt þad hid góda,

sem þú hefur ødlast á þessu Sumri, og ecki einasta þá, heldur alla lífdaga þína? þú svarar, það gjørdi Gud; þú svarar rétt; elskadu hann þá framyfir allt, þar øll góð gjøf, og øll fullkomin gjøf kémur ad ofan frá honum, Jac. 1. Hafdu aldeilis fest hjartad þitt vid hann, og það ecki vegna þíns egin ábata, heldur vegna þess hann er svo hjartanlega gódur í sjálfum sér; þú skalt láta hann vera þitt hjartans traust og hlutskipti, Ps. 73. Elskadu hann, því hann hefur elskad þig fyrri, 1 Jóh. 4. Þú segir: eg vil gjarnan elska Gud. En eg spyr, er þad þín alvara? eru þad ecki læti ein fyrir þér? þér er kannské vel vid hann, medan hann lætur þér allt ad óskum gánga; en elskar þú hann helst, ef hann typtar edur agar þig? elskar þú hann meira fyrir hid andlega enn hid líkamlega? heyr þú þar fyrir, þau óbrygdanlegu kénniteikn, eins sannarlegs Guds elskara, og athuga grandvarlega, og fyrir utan ofmikla sjálfs-elsku, hvert þú finnur þau hjá þér, svo ásigkomin, sem hér segir.

1.) Ef þú hefur alla þína unun og hugarins fullnægju í Gudi og hans ordi; þar er allur sem unir, sama segir Jesús hjá Matth. 6. Hvar ydar féshjódur er, þar er ydar hjarta. Hafir þú yndi af ad tala um hann, og heyra um hann talad, þar um kémst sjálfur Jesús svo ad ordi hjá Jóh. 14. Hvør hann elskar mig sá mun vardveita mín ord. Einninn segir Jóhannes, 1 Jóh. 2. Hvør hann vardveitir hans ord, sannarlega er Guds kjærleiki í honum fullkomlegur. En hafir þú leida á ad heyra hans ord, ert tregur til ad tala vid hann í þínum bænum, þolir ílla gudlegar áminníngar,

sannarlega er þinn kjærleiki til hans dáblaus og ískaldur.

2.) Annad andkénni er, ef þú af hjarta hatar syndina og ógudlegt athæfi, ecki einasta eina synd, heldur allar syndir. Þar er eckért Gudi svo mótstædilegt sem syndin, Ps. 5. Þú hatar ógudlegt athæfi segir David. Margir segja med munninum: eg elska Gud, en hjartad og lífernid segir allt annad. Þú varast ad styggja þann, sem þú elskar af hjarta, svo mundir þú Gudi gjora, ef þú elskadir hann af hjarta; ef þú hatar þad, sem Gud hatar, en elskar þad sem hann elskar, þá ertu ókaldur Guds elskari.

3.) Audkenni er, ef þú sýnir þína hlýdni vid Gud, med því móti, ad þú képpist eptir ad fá ad vita hvad Gud heimti af þér og med alvarlegri ástundan kappkostar, ad þú gétir ordid hønum í øllu hvad þægilegastur, ert svo strax reidubúinn ad framfylgja því, sem þú veitst ad Gud vill þú gjøir. Þegar Gud sjer ad þú þess vegna vilt stunda hans ord, ad þú gyrnist ad gjøra eptir því, þá géfur hann þér bædi nád til ad skilja þad, og líka krapta til ad laga eptir því þitt líferni. Svo er þá einn sannur Guds elskari ecki einasta ordsins heyrari, heldur og einninn gjørari, Jac. 1. Ecki gagnar fædan, ef henni er kastad upp aptur; Guds ord skal geymast í þínu hjarta, svo ad kraptur þeirrar andlegu fædu sjáist í útlimum þinna hræsnislausu gódverka. Þad er ei nóg ad vita mikid í Guds ordi, þad fordæmir meir enn frelsar, ef menn ecki hlýda því þad bídur, Jóh. 12. Hvad segir vor Jesús hjá Jóh. 13. Ef þér vitid þetta, þá

erud þér sælir ef þér gjørid þad. Item Lúc. 8. Því kallid þér mig Herra! Herra! enn gjørid þó eigi þad sem eg bid ydur.

4.) Kénniteikn er, ef þú med þolinmædi og án møglunar þolir og umber þad, sem á móti blæs, og reiknar þad fyrir allann føgnud þó þú í adskiljanlegar freistíngar fallir, Jac. 1, svo nær þú hugsar ad ekkért komi yfir þig nema fyrir tilhlutun edur tillátsemi þess mýskunsama góda fødurs, ef þú af einlægri hjartans elsku til Guds segir eins og David, Ps. 116. Þann heilsúsamlega kaleik vil eg afdrecka og nafnid Drottins míns vegsama, þá hefur þú ókaldann kjærleika til Guds. Vetrar-tíminn er þvílíkur tími, á hvørjum margt amar þad ad manni, sem hinir tímarnir eru fríir fyrir, svo sem kann ad vera skortur bædi á lífsbjørg mannanna og sképnanna, kuldi og snjóar af loptinu, og annad þvílíkt. Þetta kémur allt frá Drottni, hann er sá sem deydir og lífgar, 1 Sam. 2. Meglaðu á móti syndinni, sem þetta orsakar, en ecki á móti Gudi, sem þig hyrtir af einskjærri elsku, því þann sem Drottinn elskar, þann agar hann, Heb. 12: og gjørir þetta allt þér til góda. Ef einhver kjæmi til þín og segdi, ad allir steinar í þínu húsi skyldu verda ad gulli, þá mundir þú verda allshugar feiginn, ef þú vissir ad þad kynni ad ské; en Gud kémur til þín, þá mótlætid kémur, hvørju nafni sem þad heitir, og segist vilja umbreyta þínu andstreymi í eilífann føgnud og unadsemd, Ps. 106. Þeir sem í tárunum nidursá, munu med føgnudi uppskéra. Item segir Páll, Róm. 8: ad mótlætíng þessara tíma sé ecki verd þeirrar dýrdar, er sídar

mun fram vid ofs koma. Þad kemur aldrei svo hardur vetur yfir ofs, ad vér ei forþénad høfum hann hardari, og hvernig mundi vidra, ef Gud vildi stjórna høfudskepnunum eptir vorri forþénan? þá mundum vér aldrei sjá blídann dag; segdu því med David, þegar þér þykir ecki allt ad óskum gánga: eg vil þegja og ecki mínum munni uppljúka, af því þú gjørdir þad.

5.) Audkénni er þad, ef þú Guds vegna, en ecki fyrir þinnar æru skuld, gjørir gott og hjálpar þeim, sem naudstaddir og þurftugir eru, því þá gjørir þú Gudi mjøg þægt verk. Brjót þú húngrudum þitt braud, og innleid þá sem voladir eru í þitt hús, segir hann, Es. 55. Anniſt naudþurftir heilagra, segir Páll, Róm: 12: þad er, trúadra. Med þessari dygd sýnir þú þig ecki einasta sannann Guds elskara, heldur verdur þú Gudi líkur. Hann upplíkur daglega sinni hendi, Ps. 104. Géfdu þad, sem þú átt ecki; en þú átt ecki neitt, af því þú undir høndum hefur, Gud á þad allt. Fádu honum þad af því aptur, sem hann vill géfist fátækum, hann tekur þá svo vel á móti því, svo sem þú gæfir þad af þínu, en ecki af hans; undir þetta skrifar Salómon, Próv. 19. Hvør fátækum myskunar hann lánar Drottni. Item, hvør hann medtekur ydur sá medtekur mig, Matth. 10. Láttu svo sem þú sjáir ecki þann fátæka, hverjum þú géfur, heldur sjálfann Jesúm. Hugsadu þá þú réttir ad þeim snauda: þetta fæ eg þér, minn herra Jesú! géfdu þá þú gétur þeim sem þad leingst man og launar best, en þad er Gud almáttugur. Ølmusur Cornelí voru uppstignar til

minnis fyrir Gudi, Act. 10. Guðs Sonur hefur gjørt ráð fyrir að minnast þess á síðarsta degi, Matth. 25. Þá mun einginn þykjast hafa ofgéfið, þá þar er komið. Svo er þá mín ályktun þessi, að eptir því sem þín elska er køld edur heit til náúngans, eptir því er hún køld edur heit til þíns Guðs. Þeir fátæku, sem eru Guðs volaðir, eru undir eins vinir Guðs, en þú ert ecki réttur elskari, ef þú elskar ecki vin vinar þíns; allt þetta bevísar Jóhannes, 1 Píst. 4. Hver sem segist elska Gud, en hatar (edur, ecki elskar) sinn bróður, sá er ljúgari.

6.) Að síðustu er það eitt hið vissasta kénnimerki til þess, að þín elska til Guðs sé ecki køld, ef þú hans vegna elskar þá, sem þér hafa gjørt illa til; elskið óvini yðar, segir Jesús, Lúc. 6. Þetta boðorð er þúngt fyrir hið heiptræka hold og blóð; en hvað tjáir um að tala! Gud hefur skipað það og Gud hefur sjálfur gjørt það, hann elskaði oss, og gaf oss sinn Son þá vér vórum hans óvinir, Róm. 5. Þú vilt heita bróðir Kristí, en hann beiddi fyrir sínum óvinum; láttú þá vera líkt með skyldum. Kannské óvinur þinn sé sú svipa með hvørri hann vill hyrta þig og reyna, kystú á vøndinn eins og góðu børnin; hvað er frægilegra enn að yfirvinna sjálfann sig? hvað er góðmannlegra edur guðrækilegra, enn að vilja ecki hefna á óvin sínum, en géta það þó? hvør kann að komast hærra í dygðunum, enn að líkjast Gudi? vér móðgum hann dags daglega, hann blessar og myskunar oss daglega. Sæll er sá, sem þessa gjætir og gjörir þar eptir. O þú óuppausanlegi kjærleikans brunnur, Herra

Jesú! -verm þú vor elskulausu og ískøldu hjørtu med il og varma heilags Anda, svo vér øllu framar elskum þig, og í þér Fødurinn, sem sjálfur er kjærleikurinn, 1 Joh. 4, og þann heilaga Anda, sem er Andi elskunnar, 2 Tím. 1. Géf oss, ad vér elskum hvor annann innbyrdis med falslausum kjærleika, og leid oss ad sídustu eptir þann kalda Vetrar tíma heimsins hørmúnga afstadinn inn í þad eilífa dýrdar Sumarid, fyrir þíns nafns og elsku sakir, Amen.

---

## 6. Hugleiding,
### af Visnaninni.

Matth. 7. v. 17.

**Eitt gott tré gétur ecki fært vondann ávøxt, og eitt fúid tré gétur ecki borid gódann ávøxt; hvert þad tré sem ecki ber gódann ávøxt skal upphøggvast og í eld kastast.**

Þad er edli vetrarins ad hleypa visnan í trén og grøsin, og forrotnán í ávextina. Þad er edli syndarinnar ad hleypa spilling í líkamina og sálirnar, og forrotnan í dygdirnar. Allir hlutir voru svo í øndverdu af Gudi skapadir, ad hann sjálfur sá ad þeir voru harla gódir, Gen. 1. Þar voru mørg tré í Eden aldingardi, sem voru lystileg ad sjá, og gód til ad eta, og lífsins tré midt í aldingardinum, eirninn skilnings tréd góds og ills, Gen: 2. Þó var manneskjan sjálf hin lystilegasta af øllum þess-

um, því hún var dírmæta ávexti rettlætisins, heilagleikans, ódaudlegleikans, spekinnar og syndlausra tilhneiginga, því madurinn var skapadur eptir Guds mynd, Gen. 1, og var ad sinnislaginu Gudi líkur; en þessi blómgan vardi ecki lengi, því Djøfullinn hleypti þeirri visnan og forrotnan í alla þessa ávexti, ad þeir urdu ad eingu, svo madurinn vard ad taka fíkjublød ad láni til, ad hylja sína blygdan med; svo vard hann uppvisnadur! ó, þau skjótu og hryggilegu umskipti! og ei einasta visnadi hann og vard ávaxtarlaus, heldur uxu á honum aptur fúlir, vondir og eitradir ávextir, ránglætisins, syndarinnar og daudans, sem upptaldir eru af sjálfum Jesú, hjá Matth. 15, er hann segir: af hjartanu framkoma vondar hugsanir, manndráp, hórdómur, frillulífi, þjófnadur, falskir vitnisburdir; Item af Postulanum Páli, Gal. 5, kallast þeir holdsins ávextir, hverja hann einninn upptelur. Sídan gaf Adam af sér eins dygda-visin børn og hann var sjálfur, eptir þessari lastanna ómynd, þad er sinni edur jafnvel Djøfulsins mynd, Gen. 5, 3; lá svo ei annad fyrir, edur vid bord, enn hann og allir hans nydjar mundu sem ávaxtarlaus tré verda upphøggnir og í eld kastadir; nú hefur gjædskan Drottins bætt svo aptur vort rád fyrir medalgaungu síns elskulega Sonar Jesú Kristi, ad vér høfum aptur á ný ødlast eitt himneskt frjófgunar edli, af hvørju upp kunni ad spretta hjá oss svo miklir dygdanna ávextir, ef vér annars brúkum þá krapta, réttilega, sem oss eru þar til géfnir, ad Gud vill vera med þá nádarsamlega ánægdur. Eda hvad er annars þad, sem Pétur segir: ad vér séum ordnir hlut-

takarar gudlegrar náttúru, 2 Pét. 1, þad er, gudlegs edlis, ad vér gétum gyrnst þad sem Gud vill, og hatad þad sem hann hatar; edur mun ecki hin sama meiníng í ordum Jóhannes Postula, 1 Pist. 3, er hann segir: hvør af Gudi er fæddur, sá drýgir ecki synd, þad er, íllgyrnis synd; því hans sædi blífur í honum; hvørs sædi? Guds, hvad fyrir sædi? Guds edli og náttúra. Í hverjum blífur þad? í þeim í skírninni endurfædda manni; þessi yndislegu umskipti urdu á rádi voru skømmu eptir vora náttúrlega fædíngu; því þar vér vórum gétnir og fæddir í syndinni, Ps. 51, af náttúrunni reidinnar born, Eph, 2, gjørdi Gud oss í skírnarlauginni ad sínum børnum og erfíngjum eilífs lífs, Tít. 3, íklæddi oss Jesú. Kristó sínum elskulega syni, Gal. 3, og gjørdi oss ad frjóssømum greinum á honum, sem er þad sanna vín-tré, Jóh. 15. En Gud hreinsar hverja þá grein á honum, sem ber ávøxt, svo hún beri enn þá meiri ávøxt, svo ad nýkomnir frá skírnar-sánum vórum vér hvad blómlegastir, og bárum svo mikla ávexti, ad sjálfur Jesús segir: nema þér gjørist svo sem smá-børn, munud þér ecki inngánga í himnaríki. O! hvad farsællegt var þá vort rád? þá var Jesú blessadur mynkunar fadmur vor Eden, og hann sjálfur sem eitt lífsins tré. Lífsins tréd var til þess skapad, ad manneskjan skyldi neyta af þess ávexti, svo hann bædi skyldi lifa og ecki géta dáid; einnig til þess hann skyldi njóta sífeldrar heilbrygdi og engra meina kénna; til hverutveggja þénadi oss, þá vér vórum úngbørn, þad blessada lífsins tréd Jesús. Hann var þá Drottinn vor grædari, Ex. 15, og

fyrir hans benjar urdum vèr heilbrygdir, Es. 53, af uppruna syndarinnar sárum; þó vèr hefdum þá búrtsofnad, þá hefdum vèr ecki sjed daudann ad eilífu, Jóh. 8. Þá glansadi á oss hvítur lilju=farfi Jesú Krísti saklevsis, þá skein á oss sá randi rós=farfi hans rèttlætis, þá glóadi á oss sá fagri gull=farfi trúarinnar, þá qvaldi oss ecki øfundin, þá dró oss ecki nidur ágyrndin, þá brenndi oss ecki hatrid né reidin, þá uppblés oss ecki drambsemin né æru=gyrndin, þá saurgadi oss ecki lostasemin, og þá for=dæmdi oss ecki ørvæntíngin; þá vórum vèr sannir Guds Nazaræí, frástildir solli og svacki heimsins, þá var sálin vor brúdir Krísti, Jóh. 3. Dóttir þess himneska konúngs, Psálm. 45. Þá vórum vèr rèttkalladir synir lifanda Guds, Hós. 2. Utvaldir Guds, saudir hans hjardar, Ps. 100. Fyrirheitis=ins børn og frelsíngjar, Gal. 4. Vínber á vín=tréinu Kristó, Jóh. 15. Þá vórum vèr góð tré, sem ávøxt bárum á rèttum tíma. Ps. 1. Þá var hjartad vort musteri og bústadur Krísti, Eph. 3. Já, vèr vórum rèttur helgidómur Guds, Ps. 96. Þetta var hádegi æfi vorrar, þetta var þad yndis=legasta Sumar vorrar æfi. En Gud nádi! hvad hryggilegt er til þess ad hugsa, og hvad grátlegt um þad ad tala, hversu ad vèr erum sídan uppvísn=adir, svo ad í hvert sinn sem vèr vyrdum fyrir oss eitt úngbarn, mætti oss med harmi í hug koma: æ! hvad mikid gott hef eg misst sídan eg var eins og þú ert nú? æ! hvad mikid íllt hefi eg sídan adhafst, og í stadinn hlotid? því þá oss vór siskur um hrigg og Gud fór ad upplýsa oss med ljósi síns ords og anda, svo vèr fengum þeckt hversu gott þad var ad

vera af Gudi fæddur, Jóh. 3, og ad vera einn dýrd=legur søfnudur hafandi hverki fleckan né hrucku né annad þvíilíkt, Eph. 5, þá tókum vér strax ad hneg=jast til þess, sem var þvert í móti, og svo vard spillíngin megn í voru holdi, ad æ því fremur sem vér fengum þeckt Guds gódann vilja, æ því fremur hrylltí oss vid ad fylgja honum, og því fremur, sem vér fengum þeckt vidurstygd Djøfulsins og syndar=innar, féllum vér því heldur á þeirra sveif, þar til vér urdum margur hver af oss aldeilis uppvísuadir ad rótum, og bárum eingann duganlegann ávøxt dygdanna, heldur eitrada ávøxtu ránglætisins, hverra vegna vér vórum maklegir ad kastast í eilífann eld. Þanninn høfum vér framdregid vort líferni allir saman syndarar, hafandi skort á þeirri hrósan, sem fyrir Gudi gyldir, Róm. 3. Høfum ei viljad halda sáttmála þann, sem vér bundum vid Gud í skírninni, né gánga í hans løgmáli. Ps. 78, heldur urdum aptur undir syndina seldir, svo eckért gott bjó í voru holdi, Róm. 7. Holdlega sinnadir menn, þeir eckért skynja, sem vera ber, af því sem Guds Anda er, 1 Cor. 2. Já, vér urdum synir þessa heims, Lúc. 16, horu=flekti, Jer. 7, fúin tré, Matth. 7. Ovinir Guds, Róm. 5. Vér tókum fyrir oss þverúdarfullann Anda, Róm. 11, þjónandi gyrndum og margvíslegu býlífi, gángandi í illsku og øfundskap, hatandi hver annann innbyrdis, léd=um vora limu óhreinleikanum frá einu ránglæti til annars, þar til vér urdum aldeilis herleiddir þrælar syndarinnar, Róm. 6. A þennann hátt er allur vor skírnar=blómi uppvísnadur, og þá skjaldan ad sú mannræna hefur ad oss komid, ad vilja gjøra hid

góda, þá hefur þad ordid oss næsta ørdugt, af því, ad alltíd hefur lodad vid oss þad hid vonda, og vor hin skástu verk hafa ecki verid nema hálfverk, því þau hafa verid gjørd annadhvert vegna eigin ávinnings, edur af hræsni, svo þau vóru ecki nema hismi, blødin tóm en enginn ávoxtur, nockru nýtur.

Nú vil eg spyrja: hvad veldur því þá, ad vér þó ecki enn þá med Guds reidi oxi, hver eptir annann upprættir, og í eilífa helvítis glód erum kastadir? því er þetta fljúgandi blad enn þá ei víds vegar burtfokid? því er ecki þessi visni hálmur uppbrendur? Job. 13. Hvar fyrir eru ecki þessir villu-qvistir upprættir? Matth. 15. Hvar fyrir er svo seint þeim ónýtu þjónum kastad í hin ytstu myrkur? Matth. 24. Hví er ecki sá ónýti þjón settur af rádsmennskunni? Lúc. 16. Og hvers vegna er enn þá ecki búid ad skélla í lok brúdkaups stofu himinsins fyrir þessum fávísu meyum? Matth. 25. Hér til liggur svar: því veldur þín forþénusta, þín fridþægíng og þín fyrirbón, allra ástúdlegasti Herra Jesú! þegar þinn fadir hefur reidt til høggs, þá hefur þú, já, þú hefur alltíd komid í veginn, og svo sem gripid um axar-skaptid med þinni árnan og fyrirbón; þú hefur borid þig sjálfann fyrir høggid, og bedid þinn fødur ad láta oss njóta þess sem þú leidst fyrir oss; þegar hann hefur spennt sinn boga, og midad til vór, þá hefur þú borid af oss Guds reidi pílur med skildi þinnar forþénustu. Þú hefur árlega, já, daglega bedid, ad þessi hin ávaxtarlausu, já ávaxtarvondu tré mættu standa eitt ár enn, Lúc. 13. Þú hefur ecki viljad láta formælíng gánga yfir þessi ávaxtarlausu fýkju-tré, Matth.

21. Heldur hefur þú sífeldlega og ydduglega grafið í kríngum, og hreinsað rætur vorra hjartna með plógi þíns orðs og mótlætíngamma; þú hefur borið þar að myki, það er, þú hefur minnt oss á vorar undanfarnar syndir með prédikun þíns orðs, og andans áminníngum í vorum hjörtum, svo vor synd skyldi jafnan vera fyrir oss til minnis, Ps. 51, til ydrunar uppörfunar, að vér á ný kynnum bera verðugann ávöxt umvendunarinnar, Matth. 3. Þú, eptir þínu talsmanns embætti, 1 Jó. 2, hefur alltíð mildað og forþýðt fyrir oss sakirnar hjá þínum himneska Föður; og þetta er orsökin einasta, hvar fyrir vér stöndum ennþá óbrendir, óútkastaðir, óafsettir, óburtfoknir og óupprættir; þitt nafn sé blessað, og þú sjálfur að eilífu sért þar fyrir blessaður. Hyggjum nú vel að þessu, þér Guðs fólk! í dag! í dag! á meðan vér heyrum og formerkjum rödd hans fyrirbónar, meðan vér finnum krapt hans forþénustu, þá forherðum ecki vor hjörtu, Ps. 95. Oss er því hættara sem vér höfum lengur staðið sem visnaðir fauskar; nóg er af orðið fyrir oss! vær höfum allt ofleingi borið súr vínber, já eitruð ber íllskunnar. Æ því er miður og verr! Guð náði oss! margir af oss offruðu Djöflinum því heita æskunnar blóði, þeim frísku úngdómsins kroptum, þeim yndislegasta parti æfinnar, en ætlum nú að kasta þeim visnu beinum ellinnar uppá Guðs altari til fórnar, og gefa þau fyrir sálu vorri, rænandi svo frá Guði því sem hann átti með réttu, hvar fyrir eg hræðist að skrifa það dóms atqvæði, er Drottinn leggur á þá sem svo fara með hans offur, og skrifað stendur hjá Malachíam Spámanni, 3. Cap.

Allir frumburdir áttu ad vera Drottni helgadir, í gamla Testamentinu, Ex. 3. Svo átti og ad vera frumburdur æsi vorrar, medan vér høfdum óvisnada krapta, þeir áttu þá ad fórnfæraft Gudi til þess offurs sem lifandi er, og heilagt, og Gudi þacknæmt Róm. 12. Syndin er því sterkari sem hún er eldri, manneskjan því veikari, sem hún er eldri; þad skal árla beigjast sem í ellinni á ad vera bogid, annars støckur þad; en lofadur sé Gud, þad er ecki enn þá búid ad útiloka oss frá þeirri himnesku Jerúsalem, Gud hefur enn þá gód rád, og gjædskufullann vilja til ad gjøra oss ávaxtarsama og af følnudum stráum blómleg aldini; snúid ydur til mín, segir hann, þá vil eg snúa mér til ydar: svørum honum aptur, Jer. 31; snú þú oss Drottinn þá verdur oss snúid. Gjætum ad! Gud hefur líka annad medal heldur enn skírnina ad fæda oss med á ný, (jafnvel þó vér séum búnir ad tapa því gudlega edli sem vér ødludustum í henni) þad er ord Guds lifanda, þad óforrotnanlega sædi, sem blífur um eilífd, 1 Pét. 1. Í hvert sinn sem þad vinnur svo á hjørtum vorum, ad vér ydrumst syndanna, og látum af þeim, en íklædumst aptur þeim nýa manni, sem eptir Gudi er skapadur, Eph. 4. Þá endurfædumst vér, og ødlumst gudlegt edli á ný; látum nú Gud sjá oss blómlega upp frá þessu, svo vel á eptirkomandi Vetri sem alltíd þar eptir. Á Sumrinu lifna grøsin vid aptur, þau er visnudu og dóu á Veturnar. Einhvørsstadar er nú Sumar, þó hjá oss sé Vetur, þó ad Veturinn sé hid ytra hjá oss, þá látum Sumar Gudhrædslunnar og lífernisins vera hid innra, sem orsaki þann varma í

hjartanu, ad hid ytra sjáist útspringa aldini og ávextir kristilegra dygda, heyrum gjarnan Guds ord, Jóh. 8. Látum þad gánga oss til hjarta, høfum vilja og vidleitni ad gjøra þad, sem Guds ord skipar, Jóh. 7. Færum af því ávøxt, Lúc. 8. Høfum eina lifandi trú, Jóh. 6. Já, framqvæmum allar dygdir af trúnni, 1 Pét. 1. Elskum Gud, 1 Jóh. 4. Ottumst hann med sonarlegum ótta, 1 Tím. 4. Offrum Gudi vorum líkama, Róm. 12. Bidjum hann opt og ydugleg a í anda og sannleika, Jóh. 4. Lofum og þøckum honum, Eph. 5. Verum ánægdir med hvad sem hann lætur yfir oss koma, 1 Tím. 6. Gjørum gott hverjum manni, einna mest þeim sem eru af trúarinnar heimkynni, Róm. 12. Í einu ordi ad segja: keppumst vid ad inngánga alltíd hid þraunga portid, Lúc. 13. O Jesú! þú blessada Sarons blómstur, sem aldrei uppvísnar ad eilífu; gef oss nád til ad sækja eptir helganinni, Ebr. 12, svo vér berum blómstur allra kristilegra dygda, og þá vér loksins uppvísnum í daudanum, þá gjør sálir vorar alblómgadar med himneskum ljóma og vegsemd í eilífdinni, þar til vér um sídir verdum eptir upprisuna bædi á sál og líkama svo blómlegir, ad vér samlíkjast mættum þínum forklárudum líkama; bænheyr þad fyrir þíns blessada nafns sakir, Amen.

---

## 7. Hugleiding, af Snjónum.

Es. 55. v. 10. 11.

Eins sem regnid og snjórinn nidur-

falla frá himninum og koma ecki þángad aptur, heldur vøkva hana yfirfljótanlega, og gjøra hana ávaxtarsama; svo skal mitt ord vera, sem skal útgánga af mínum munni, þad skal ecki koma tómt til mín aptur.

Þad er eptirtekta verdt, ad Drottinn líkir i þessari máls-grein Esaíæ sínu blessada ordi vid snjóinn, og vegna þess ad vér høfum tíma snjóanna, sem er Vetrar-tíminn, þá inngaungum hann med yfirvegun þess blessada ljóssins Guds dýrmætu orda, svo þau séu bædi á þessum Vetri, og alltíd endrarnær, ljós á vorum vegum, og lampi fóta vorra, Ps. 119. Drottinn segir í þessari máls-grein Esaíæ; þad skal ecki koma tómt til mín aptur; þad er, þad skal 1) lesast, 2) heyrast, svo ad þess lestur og heyrn færi þann tilhlýdilega ávøxt, því skulum vér nú í vorri sídustu hugleidíngu athuga, hverninn Guds ord á 1) ad vera lesid, 2) hvernin svo á ad hlýda því, ad þad komi ecki tómt edur ávaxtarlaust til Guds aptur.

1.) Fyrst þegar þú les Guds ord, sérdeilis heilaga Ritníngu, um hverja Jesús hefur útgéfid þetta bodord: ransakid Ritníngarnar, Jóh. 5. Þá lát þér til hugar koma, ad þá bók hefur sjálfur Gud gjørt og stílad, þvíad Spámønnunum, Gudspjallamønnunum og Postulunum er hún án medals eda uppfrædíngar af Gudi inngéfin, 1 Tím. 3. Þeir vóru handskrifarar Guds; af þeirra toga er þad spunnid, sem vér prédikum, svo framt sem þad samhljódar heilágri Ritníngu. Hvert má þad þá ecki

uppørfa oss til að lesa og yfirvega heilaga Ritníngu með hinni mestu auðmýkt og andagt, þá vér athugum að sjálfur Guð hefur hana samantekið og stílað; lofaður veri hann og blessaður! hana er nú allvíða að fá í vorum húsum, en með hvaða eptirtekt og ávexti hún muni af sumum lesin vera, veit hann sjálfur best; en hitt er víst, að hver sá sem hana á, og forsómar að ydka edur láta ydka hana í sínu húsi, má búast við að standa þar af reiknúng síðar.

2.) Í annann máta, hvað helst Guðs orð, sem þú les, (gyldi þig ecki einu þó það komi tómt til Guðs aptur, og fordæmi þig á síðasta degi, Jóh. 12), þá gjæt vel að, að það er einn himneskur féssjóður, sem auðgar sálu þína andlegum og óforgeingilegum gjæðum; grenslast þú því, eins og Salómon segir, eptir þessum féssjóð, Pröv. 2. Þú finnur í því óteljandi greinir, hverjum þú átt að safna í þitt hjarta, svo sem himneskum eðalsteinum; þetta er sá eini féssjóður, sem þig gjörir í Guði ríkann; hann forsorgar þína sálu með Guðs náðar fyrirheitum. Önnur auðlegð er ecki betri enn svo, að einn heiðíngi getur líka verið ríkur af henni; en þessum auð safna ei nema Guðs børn, sem standa til að ødlast eilífa arfleifð á himnum. Þeim heimildar- edur eignar-skjølum sem menn hafa fyrir jørðum sínum og óðals gótzi, glata menn ei, og lesa þau með mestu gaumgjæfni. Guðs orð er þitt heimildar-bréf fyrir himnaríki, gleym því ecki né glata, les það með mesta athuga; þú veitst ecki nema sú grein, sú klausa, sem þú les með athugaleysi, og án eptirtektar, sé sú, sem þér reið mest á

eptir ad taka. Þú vilt ad Gud sé þinn Gud; ransakadu þá Ritnínguna og hans' ord; þar færdu ad þeckja ad hann blífur í oss fyrir heilagann Anda, sem oss er géfinn, segir Jóh. 1 Pist. 3. Viltú vita hvert þú ert sjálfur erfíngi fyrirheitisins, þad finnur þú í Guds ordi, því hann hefur útvalid oss til sáluhjálpar í helguninni, 2 Tím. 2. Þeir sem eru kér nádarinnar, skulu og verda kér dýrdarinnar.

3.) Álíttu Guds ord þá þú les þad, svo sem eitt Týa-hús edur Vopna-hyrdslu, hvadan þú skalt taka verjur þær er þú átt ad brúka mót Satan og syndinni, því Guds ord er eitt sárbeitt-sverd, sem afsnídur vondar hjartans gyrndir og greinir lastanna. Til dæmis: þegar hofmódurinn blæs þig upp, þá segir Guds ord; Gud mótstendur dramblátum, 1 Pét, 1. Item, segir Salómon: drambátt hjarta er ein andstygd fyrir Gudi og mætir víst hegníngu, Próv. 16. Þegar hatur og reidi hreifir sér, upprætir Guds ord hana; reidist en syndgid ecki, segir Páll, Róm. 12. Þegar losta-gyrndin upptendrast; Guds ord slöckur hennar bál; enginn óhreinn hefur arftöku í ríki Kristí og Guds, segir þad, Eph. 5. Já, í þessu Týa húsi eru verjur mót sjálfum Satan; þegar hann freistadi Kristí, fékk hann af honum þrjú stór sár med þessu sverdi, skrifad er, sagdi hann alltíd, Matth. 4, safnadu því þessum vopnum í hjarta þitt, þá þú les ordid, svo þú þar med kunnir út ad slöckva öll eldleg skeiti hins prettvísa óvinar, Eph. 6.

4.) Skaltú láta Guds ord vera þér svo sem einn speigil þá þú les þad; settú þennann speigil fyrir þig, þá þú ert ad íklæda þig Guds her-skrúda,

Drottins bodord er klárt sem upplýsir augun, segir Davíd Ps. 19. Heing þú þennann speigil upp í hús hjarta þíns, og horf ydugleqa í hann, þá sjer þú strax hvad þig lítir, og gétur med Guds hjálp komid því aptur í gott lag. Í ødrum speiglum sjá menn sitt andlit, í þessum sjá menn sitt hjarta, já, Guds myskunar hjarta sjest í honum, þad er hid mesta sálarinnar eptirlæti í þad sem optast ad horfa; Drottinn upplýs mín augu, ad eg megi sjá þína undarlegu hluti af þinu løgmáli, segir Davíd, í Ps. 119. Hér sjer þú sjálfann Jesúm Kristum, brúdguma sálar þinnar, þar máttú horfa á hans uppmáludu mynd, og una þér vid hana, þángad til hann kémur; hér sjer þú hans persónu, náttúru og embætti, en eilift líf er undir því komid, ad þú þeckir hann, Jóh. 17.

5.) Þegar þú les Guds ord, álíttu þad, svo sem eitt læknisdóma hús; þar er ad finna og fá lækníngar vid øllum sálarinnar, hjartans og samvitskunnar meinum, já, vid sjálfum daudanum, þitt ord gjørdi mig lifandi, segir Davíd, Ps. 119, þad stillir þann andlega hjartverk med Guds nádar fyrirheitum.

6) Lestu Guds ord, svo sem þá bók, eptir hverri þú átt sídar ad dæmast; þad ordid sem eg hefi talad, mun fordæma hann á sídarsta degi, segir Jesús, Jóh. 12. Hvern þá? þann sem athugalauslega las þad og heyrdi, og lagadist ecki eptir því. Ef þú lifir eptir þessarar bókar innihaldi muntu verda frídæmdur, en lifir þú þar þvert á móti, muntu eptir henni fordæmast. Þar eru tvær bækur, sem þú skalt lesa med mestum athuga, bók

samvitskunnar og bók heilagrar Ritníngar. Önnur á ad verda þér ad vitni, önnur ad dómara, lát þá fyrri lagast eptir þeirri seinni; ef þú gjætir alls þessa, þá þú les Guds ord, þá er eg viss þad kémur ei tómt til hans aptur, heldur færir þvílíkur lestur þann ávöxt hjá þér, er sýnir sig bædi í ordum og verkum Gudi og gódu fólki þócknanlegann.

7.) Enn svo mikid sem á því rídur ad lesa Guds ord med andagt og athuga, svo rídur og ecki minna á ad hlýda því med hinni mestu eptirtekt og gaumgjæfni, svo ad ecki eigi heima hjá oss þad Drottinn klagar yfir hjá Ezechíelem, þeir munu koma til þín, og sitja fyrir þér sem mitt fólk, og heyra þín ord, og eckért gjøra eptir þeim, Ezech. 33. Gjætum því fyrst þess þá vér hlýdum á Guds orda framburd, ad þad er sjálfur Gud sem þá er vid oss ad tala. Nær kóngurinn talar, hlýda menn med gaumgjæfni; en Gud talar fyrir prédikarann, svo framt þad er Guds ord sem hann talar, og ecki hans eigid heila-rugl, edur úr annara skrifum til láns tekinn þvættingur; því skyldu menn þá ecki med athuga hlýda á tal hans, sem er konúngur himins og jardar? þegar Samúel vard þess var, ad þad var Gud sem taladi til hans, sagdi hann: taladu Drottinn, þinn þénari heyrir þad, 1 Sam. 3, sá sem foragtar ad hlýda, þá Gud talar í sínu ordi, skal verda ad hlýda, þá hann talar í sinni reidi, Ps. 2. Athugum þar næst vigtugleika þess efnis sem verid er um ad tala; oss ber ad vera ódrucknum, og árvökrum, ad vér því betur gétum hlýdt. Eg tek himin og jørd

til vitnis yfir ydur í dag, sagdi Móses, ad eg hefi sett fyrir ydur lífid og daudann, Devt. 30. Vér prédikum Kristum, og þad eilífa líf fyrir vorum tilheyrendum, mun þad ecki þess verdt ad eptir því sé tekid? Þad er ecki eitt forgéfins ord til ydar, heldur ord ydar lífs, sagdi Móses, Devt. 32. Þú átt h'r ad auk ad muna þad þú heyrir, en hvernig gétur þú munad þad? nema þú takir eptir því; margur klagar hann géti ecki munad; orsøkin er: Gud straffar sumra eptirtektaleysi med gleymskunni, og lídur ad Satan steli burt ordinu; himinsins fuglar eta og einninn sædid, Matth. 13. Máské þetta sé í seinasta sinn þú heyrir Guds ord lesid edur prédikad, kannské þú verdir ad gánga strax frá þeirri prédikun, edur lestri þú heyrir, og strax inn fyrir dóminn. Þessir og adrir þvílíkir þánkar eiga ad uppørfa oss til andagtar undir Guds orda heyrn; þú hlýtur ad standa reikning af hverju því ordi sem þú heyrdir en hyrtir ei um eptir ad taka; ef þú gjætir þessa vel, þá mun ei Guds ord koma tómt til hans aptur, heldur færir þann ávøxt hjá þér, sem Gud hefur tilætlad, Því þad er lifandi og krøptugt, Ebr. 4. þad er bædi sverd, til ad burtsnída syndina, og spori til ad uppørfa nádina. Eldurinn þídir þann hlut sem frosinn er; Guds ord mýkir stockfredin hjørtu. Er mitt ord ecki sem eldur, segir Drottinn, Jer. 25. Brann ecki ockar hjarta í ockur, søgdu þeir tveir Emaus reisendur, Lúc. 24. Já, þegar Guds ord er þannig med andagt og athuga lesid, og yfirvegad, þá gjørir þad allann manninn andlegann. Snjórinn, þá hann yfirklædir jørdina, gjørir hann, ad hún

verdur sér sjálfri ólík og ófeckjanleg, svo umbreytir Guds ord öllum manninum, þá þad flytur hann úr ríki Satans, í ríki Kristí, Cól. 3; það gjörir oss andlega sjáandi, sem ádur vórum andlega blindir, því það upplýsir augu vors skilníngs, Drottins vitnisburdur gjörir hjörtun hyggin, Ps. 19. Vér sjáum í undirdjúpinu qvalir fordæmdra, á himnum sælu útvaldra, og rádin til ad fordast hitt, en ad ödlast þetta; það gjörir oss andlega heyrandi, svo vér gledjum oss af því til vor verdur sagt: vér skulum inngánga í hús Drottins, Ps. 27, það gjörir oss andlega veltalandi; svo leingi menn framm=ana í syndinni eru þeir svo sem mál=lausir, svo ad jafnvel bæn hins ógudlega verdur ad synd, Ps. 160, því segir Davíd: Hefda eg nockurt órétt í mínu hjarta, þá heyrdi Drottinn ecki mína bæn, Ps. 68. Gud bænheyrir ecki synduga, sagdi sá sem blindur var borinn, Jóh. 9. En þegar Guds ord heyrist med athugasömu hjarta, þá kémur trúin fyrir þess heyrn, Róm. 10, med henni umfödmum vér Kristum, fyrir hvern vér höfum djörfúng og adgáng í fullu trausti fyrir hans trú, Eph. 3, sem er forlíkun fyrir vorar, og ecki einasta fyrir vorar, heldur allar veraldarinnar syndir, 1 Jóh. 2, svo ad túngan vor hefur djörfúng ad upplypta sinni bæn í skýin til Guds; bæn hins réttferduga má mikid þá hún er alvarleg, Jac. 5. Vér erum seinfættir, já, draghalltir, ad gánga á vegum Drottins, og þó vér séum endurfæddir, brjótum vér allir margfaldlega, Jac. 3, sá hinn réttláti fellur sjösinnum, Próv. 24, en Guds ord lagar svo vort edli, þá vér tökum réttilega eptir því, og vid=

réttir krapta þess andlega lífsins, ad vér bædi viljum gjøra og gétum gjørt, þad Gud vill, og heyrir til vorrar sáluhjálpar; þad greidir fætur vorar framm á veg fridarins, Lúc. 1. Páll áminnir í Pist. til Hebr. 12. Cap. v. 13. **Gjørid réttann gáng med ydar fótum, svo þad sem hallt er, fari ei framar villt.** Allt megnum vér fyrir Kristí krapt sem býr í ordinu, en ekkért án hans: **án mín fáid þér ekkért orkad,** segir hann, Joh. 15. **Gud er hann sem í oss verkar bædi viljann og máttinn,** Philipp. 2, en fyrir hvert medal? fyrir sitt blessad lífsins ord. Snjórinn fellur úr loptinu yfir jørdina; sú edla gáfa Guds, hans blessad ord, er ofan komid frá Fødur ljósanna, Jac. 1, **því sá eingétni Sonurinn sem er í Fødursins skauti, hefur oss þau opinberad,** Jóh. 1. Snjórinn hefur mjallhvítann lit; **ordid Guds er ljós á vorum vegum, og lampi fóta vorra,** Ps. 119. Snjórinn smelltur af sólarhitanum, vøkvar jørdina; Guds ord af eldi heilags Anda kraptar, smelt í vorum hjørtum, vøkvar vorar sálir; **því hver hann drekkur af því vatni sem eg mun géfa honum,** þad er, hver hann hlýdir minni kénníngu, **þá mun hann ecki þyrsta ad eilífu,** segir Jesús, Jóh. 4. Snjórinn hlífir jørdinni vid frostinu; Guds ord hlífir oss vid øllu því, sem orsakar uppvísnan gudhræddlunnar, **því þad er þad óforrotnanlega sædi,** 1 Pét. 1. **Snjórinn** nemur helzt stadar í láglendinu, en fýkur af þeim háu fjøllunum; Guds ord færir helzt ávøxt í lítilátum hjørtum, en úr þeim af drambseminni uppbláslu hjørtum fíkur þad, því Satan, sá illi andi drambseminnar, stelur því þadan, Matth.

13. Þegar Sumarid kémur, sólin skín og vermir, þá sjest helzt hvert gagn ad snjórinn hefur gjørt jørdunni; þegar þad eilífa gledinnar Sumar kémur, og sól réttlætisins uppljósir og vermir vorar sálir og líkami, þá reynum vér fullkomlega, hversu gott þad leidir eptir sig, ad taka eptir Guds ordi, og færa af því ávøxt í þolinmædi.

O! þú allrá ylmsætasta ord þíns himneska Fødurs, Herra Jésú Kristi! géf þú ad þessi hér ad framan tølud, samt øll ønnur þín ord, verdi øllum þeim, sem þau lesa edur heyra, ylmur lífsins til lífsins! Þér med Fødurnum og heiløgum Anda, sé lof og dýrd ad eilífu, Amen.

---

## Bænar= og þakklætis=vers
í
# Sumar Inngaungu,
qvedin af Prófastinum
## Síra. Sigfúsa sál. Jónssyni.

Lagid: Eilíft lífid er 'æskilegt.

Kemur oss upp ad nýu nú, nádar= og Sumar=ljós, margfaldist lof þitt, minn Jesú, makt, æra, dýrd og hrós; úr hafi misgjörda hrópum vér, í haf þinnar myskunar; bjargi oss þínir blód=lækir, burtþvoi syndirnar; ljós þinnar nádar ljómi best, ljós trúarinnar vidnærist, ljós þinna orda lýsi hér, ljós skýni kjærleikans; géf í ljósinu gaungum vér, glæd þú ljós skírleikans; med børnum ljóssins blessadir, byggjum ljós himna-ranns.

2. O! þú blessadi aldanna, eilífi Fadir kjær, mer þú oss skipti missira, í myskun þinni vær, med nýu Sumri hinn nýa mann, nádin þín upplífgi, svo þægilegur þér sé hann, þinn vilja stundandi; samvitska þjáníng sefa nú, sofandi hjørtun uppvek þú; hryggvum vertu trúr huggari, hjálpandi naud=stoddum, yfirvaldanna verndari, vørn besta þegnunum, kjør=hnossid allri kristninni, kroftug ródeyendum.

3. Sumar=gjøf Jesú fértu vor, Sumar farsælda veit, Sumarsins helga sérhvørt spor, Sumar=faung géfðu neyt, Sumar fridar og samlyndis, Sumar lífs betrunar, Sumar innra manns sælgjætis, Sumar Guds nálægdar; synda qvittunar Sumar géf, Sumarid þinni blessan vef; í Sumar ef burtu sofnum vér, og súpum daudans skál, eda hvenær sem þóknast þér, þrjóti lífs reisa hál, í Sumars eilífa samvistir, sjálfur tak vora sál!

## Vers í Sumars Utgaungu.

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hvør sem kann.

Lofum Gud, lidid er Sumarid, hágøfgud, hjarta lofgjørdum med, sé þolinmædi þín og nád, þrenn=íng blessada, hjúkrun, vernd og hjálpar=rád, vid heiminn sakada; þad til er, þér lof=saung bjódi, þar fyrir; þú Fadir gódi! høndþín hér, hrindir frá módi, hana kyssum audmjúkt á, prísi Jesú hjálpar hønd, himin og jørdin, legdu þar til líf og ønd, litla Guds hjørdin.

2. Aví! hvad, opt høfum styggdann Gud, grætir þad, Guds nád er forøktud; hans er andi hreldur tídt, himin saurgadur, mínum Jesú móti strídt, Mammon elskadur; lemstrud sál, lyndt vid ósóma, veik og mál, vanid hégóma, þykir brjál, ad þeinkja um Guds dóma; væg oss Drottinn vesælum, snú oss Jesú, sneidtu þín, Snid syndabandid, bú oss Jesú burt til þín, á blessada landid.

3. Jesú minn! jeg fel í hendur þín, sáudinn þinn, sálu dýrkeypta mín, grát=þjakada, Gud veit þad, gódi Meistari, þad álíti þitt hjartad, og þessu

til svari: Amen já, eg sje naud þína, kom og fá, qvøldmáltíd mína, vert mér hjá, eg vil þér ei tína. Pad góda andsvar gnæfir allt, þá er hjarta bætt og blídt, bølid er unnid, og eilíft Sumar yndis=þídt, upp aptur runnid.

## Vers í Vetrar Inngaungu.

Lagid: Sælir eru þeir allir nú.

Stríds-merki Jesú undir enn, uppbyrjum Vetur kristnir menn, andlega beijast eigum, sem herknir stríds=menn Herrans þó, hver fyrir oss á krossi dó, uppgéfast ecki megum; verum trúir og vakandi, vongódir ætíd bidjandi, senn kémur sigurvinníng; í fridar einíngu framgaungum, fyrir varnar skjøld æ hofum, Kristí kross=dauda minníng.

2. Vertu Jesú í Vetur med, verm og uppljóma sálar=bed, med þíru ordi og Anda, reisa oss dýru réttlæti, reidstu ei voru dugleysi, hýr vyrdstu hjá oss standa, ørvæntíngunni á burt hrind, eyd sem ský=flóka vorri synd, daglegu deil oss braudi, sáluhjálp=lega send þú nægd, sýndu í øllum raunum vægd, er þénar þínum saudi.

3. Eg fel svo endurleysta ønd, ó, sæti Gud! í þína hønd, med øllu því er og orka, í lífi, deyd og dómi bid, Drottinn Jesú mér veittu lid, brjót Satans bana=forka; hald þú mér Jesú hraust vid þig, Herra Jesú! ei forlát mig, géf mér vid þig ad þreya, láttu mig Jesú lifa þér, líka deya nær hédan fer, og sýngja eilíft, Eya!

Vers

# Vers í Utgaungu Vetrar.

Lagið: O Guð vor Faðir sem í himnaríki ert.

Himneska Föðurs hjartagjæðsku hlýindin, yfir innra og ytra mann, í Vetur sveimað hafa, oll hægð og blessan af hans hendi er útflotin, nægtin af brunni náðar rann, niður til vor sjálfkrafa, midt í því sem hann móðgum vér, mykun hans að oss streymir; ó! hvað maður er minnis-þver, til mildi Guðs valla dreymir, þó hjá oss daga alla er, sem auga sjáaldur geymir.

2. Indælust Jesú aðstoð þín og augna vakt, vegsamist bæði á himni og hér, um heims gjörvallar bygðir, þér sé hrós, æra, hátign, veldi, heiður, makt, lofi þig allt hvað í oss er, fyrir eilífu þínar trygðir; veri blessað þitt vængja-skjól, vel hefur það oss dugað, þitt dýrmæta sannleiks orð oss ól, engin hörmúng fékk bugað, ó þú réttlætis sanna sól! þér æ sé um oss hugað.

3. Herra Jesú! er hrygða Vetur hærstann fannst, og freistínga, elin fárlegust, fyrir oss synd-þjakaða, hvar með eilífar værðir sálum vorum vannst, og hlýindin sælu. hagstæðust, heim leið oss í þér glaða. Þó líðum skúrir hrygða hér, Herra verði þinn vilji, þolinmóðir gef þreyum vér, þjáninga-tímans bilji, en enginn hlutur oss frá þér, ó Jesú, Jesú skilji.

# Enn Sálmur í Inngaungu Sumars.

Lagið: Árið hira, nú hið nýja.

Nú í Jesú náðar nafni, nýtt Sumar að liðnum Vetri byrja ber, ár sérhvert, þó æfi safni, að hún

kortad stittir fet, þad vitum vér; dagurinn einn fær annann vottinn, aldrei svo þad dregst í hlé, hvör annari hermir nóttin, hversu Drottinn, ágjætlegt ad prísa sé.

2. Látum oss af alúd þacka, allt þad lán, sem Vetur þenna, Gud oss gaf, vér sem hofinu sjed og smackad, sæta hans ást og nádar-rennu ausíd af; yfir synda breidist bletti, blódid Jesú, pína og deyd; géf ad sérhver sig vidrétti, svo ei detti, í gløtun og andar neyd.

3. Blessun nýa af lopti og ládi, líka sjá og vøtnum sendi gódur Gud, hann einn stjórni efni og rádi, adstodandi, svo oss hlotnist bjørg og braud; hús, menn, qvinnur, hjú og børnin, hans ábreidist vængja-skjól, veri hann voludum vørnin, villtum stjórnin, grættum føgur gledi-sól.

4. Yfirvøldin audgi og blessi, allra høfud-stétta stod og styrkur sé; í sinu kalli sérhvern hressi, svo gudlega kynnum mettast fridi og fé; þeim í sorgum qvalnir qveltir, kastali trúr sé Drottins nafn; hverninn sem hér ýmsu eldt er, og vo sér velltir, vor Gud er þó samur og jafn.

4. Sál og líf, embættid, æru, og þad lán sérhverjum gaf Guds hjálpar-hønd, honum allt offrum og færum, oss hann veiti styrk og stod um løg og lønd, þá vér skulum skiljast vidur, og skømtud linnir heimsins tøf, í dýrd innleidi oss med ydur, og Guds fridur, sé vor allra Sumar-gjøf.

## Í Inngaungu Vetrar.

Med sama lag.

Í Jesú nafni nú inngaungum, ný á komna Vetrartíd, sú bendir brátt, ad hvør mann med eptirlaungun,

æ til Guðs með þøckum vendi hljótt og hátt, innri bæði og ytri kraptar, ættu nú að heyra og sjá, morgun hvørn og eins um aptan, skyldu skapta, Skaparans verk að minnast á.

2. Hann gaf byrtu sólar sinnar, sekum oss, en skúrir setti akra á, og vor minntist, eins og hinna, er lífernis-feril réttann gjørðu gá. Enn, Guð náði! súr ber synda, samt vér bárum þar á mót; tíð mun hyrðuleysi að hrinda, hjartans blinda, með ydrunar réttri rót.

3. O hvað margir í burt deya, oss til drecka þessir dauðans skeinkta skál! O hvað margir eptir þreya, og metta með harma-brauði særða sál! við þan dæmin vakna gáum, vort takmark er einnig nær, og í tíma að oss sjáum, ei meir fáum daginn þann, sem gafst í gjær.

4. Drottinn gefi oss góðar stundir, gjørvallri því á hann hyggju vørpum vér; þeim sem svíða ýfðar undir, yfirgéfnir líka sýnast um heim-hér; minn Guð! yfirgéf þá eigi, ecki þeim fjarlægur sért, þú hefur þó þúsund vegi, að þeirra tregi, í føgnuðinn snúist bert.

5. Pér í skaut þrí-einum Herra, þeim sem alls á himni og jørðu gjørir gá, allt mitt ráð eg vil innvefja; oss þitt skjól og skugga gjørðu í líkn að ljá. Senn mun ei-líft Sumar skína, sorgar eptir liðið jel. Vor Guð ann-ist alla sína; mig og mína, mýskun hans eg jafnan fel!

## Sálmur í Inngaungu Sumars,

qveðinn af Síra. Magnúsi sál. E. S.

Lagið: Herra þér skal heiður og vyrðing greiða.

Allir dagar eiga qvøld um síðir, ár, misširi, mánaða-tímar fríðir, vikur, stundir, stílaðar mundir, stjórn Guðs undir, standa heims um tíðir.

2. Hann er sá, sem himin ljósum prýddi, haudrið breida fægrum blómstrum skríddi, og fiska um geima, fjøld lét sveima, síst því gleyma, syndugum mønnum hlýddi.

3. Hann er sá, sem hreinum vokva fleytir, af himins skýnum, jørd er ávøxt veitir, svo sáum bætur, Fadirinn mætur, fyrir oss lætur, sín fót-spor drjúpa af feiti.

4. Hann ver drep-sótt, hallæri og strídi, í honum lifa, eru og hræraft lýdir, upphaf steudur, hans í hendi, hér med endi, og heims gjørvallar tídir.

5. Hann er sá, sem hverja sképnu sedur, húngrada fyll-ir ríkum gjædum medur, léttir naudum, líknar snaudum, lífid, daudum, fær, og grátna gledur.

6. Hann oss alla ástar-ørmum vefur, og í sínu lífi borid hefur; hann oss grædir, hann oss fædir, hann oss klædir, hann oss gjædi gésur.

7. Hann er sá, sem hjartans naudum fargar, hjálp-arlausum mildilega bjargar, krapti hreinum, hrindir mein-um, hans vér reynum, mýskunsemdir margar.

8. Hann er skjøldur, hæli og skjólid besta, hlífdar-múr þeim vid hann trygdir festa, þolinmódur, þýdur, gódur; heidur og hródur, hans skal aldrei bresta.

9. Himins og jardar hærsti al-rádandi, þú hefur oss enn í þessu voru landi, mildi þína, og mýskun sína, er má ei dvína, audsýndt ópreitandi.

10. Því á Vetri þeim, sem nú er lidinn, þú oss lént-ir blessan, heilsu, fridinn, hagstæd vedur, hjúkrun med-ur, og helzt sem gledur, lífs og lima gridinn.

11. Eins sem Fadir elsku- og dygda-ríkur, øllu gódu ad sínum børnum víkur, eins þú breittir, allt gott veittir, og ad oss fleyttir, enginn er þér líkur.

12. Æru og dýrd þér aptur skulum gjalda, fyrir

elsku, trygd og blessan þúsundfalda; hvad sig bærir, hvad sig nærir, hér þér færi, lof, og um aldir alda.

13. Vorra synda minníng oss nú mædir, sem medur þaunkum, ordum, verkum bædi, safna nádum, síst ad gád-um, sjálfs þíns rádum; hefndin straung því hrædir.

14. Fyrir blódug sár og beiska Jesú pínu, brædi heft, en asmá synda-línu, sekudum vægdu, hegníng hægdu, hrygdir lægdu, og líkna fólki þínu.

15. Sumar-tímann nú vér byrjum nýa, nádugi Gud! og til þín gjørum flýa, í Jesú nafni, sorgar-safni, svift; en dafni, fridur og gledin fría.

16. Himninum vyrdstu hér ad ofann bjóda, hann yfir-døggvi jardarinnar gróda, svo ávøxt bæri, oss og næri, einninn færi, árgjædskuna góda.

17. Blessa oss úti, bótin allra nauda, blessa ávøxt nauta vorra og sauda, blessa heimkynni, blessa oss inni, blessan þinni, blessa í lífi og dauda.

18. Himin, jørd og hafid med sín gjædi, hjálpist ad og styrki vort bjargrædi, audna, þægdir, hjúkrun, hægdir, heilla nægdir, oss fadmi, gledji, fædi.

19. Minnstu ad sértu múr og vørn glóandi, sem móti øllum hervíkíngum standi, og hreki snauda, í hafid auda, hel og dauda, frá voru fødur-landi.

20. Stid þú Kóngsins stól og erfda-sæti, stjórn hans prýdi vitska, nád, réttlæti, þitt hjálprædi, hann umklædi, og heillum gjædi, med føgnud og fridar mæti.

21. Herra þína hyrdarana alla, á hædum Zíons þeir ed vaka og kalla, klæd í mæum, krapti af hædum, Kristí rædum, hjá oss lát ei halla.

22. Valdsmønnunum vitsku og skilníngs anda, veit, svo kynni í sínu kalli standa, hefja fróma, en hefnd og dóma, hinum róma, sem gridum og fridi granda.

23. Elska, fridur, eining og samlyndi, egta-fólksins hjørtu saman bindi, svo bod þín haldi, kíf og kaldi ei komi ad gjaldi, en frjófgist fridur og yndi.

24. Láttu mýkjast hjørtun þau stein-hørdu, hressíng finna þá hina sundur-mørdu, sjúka grædast, synduga hrædast, huggun gjædast, þá hér gráta gjørdu.

25. Freistadir allir felist Jesú sárum, svo finni tak-mørk sínum eymda-bárum; þeirra hrædda, hjartad mædda, hrygdum klædda, fyll med fridi klárum.

26. Þeim deyendum þyrm í náð og vægdu, þeirra sáru andláts qvølum hægdu, fyrir Jesú dauda, og dreyr-ann rauda, úr djúpi nauda, þá drag, og qvída lægdu.

27. Jesú, lát þitt rauda blódid blæda, á børn þín ølk og sálar undir græda, fyrir-þín sárin sorg og tárin, oss géf árin, eilífra Sumar-gjæda, Amen.

## Sálmur í Inngaungu Vetrar.

Lagid: O Drottinn allsvaldandi.

Drottinn allsvaldandi, undir hvers stjórn ad lifum vér, af himni, hafi og landi, sem hagqvæma blessan med-deilir, þú lénar vørd, lýd ad næra, lætur jørd ávøxt færa, þackargjørd þér sýngist og æra.

2. Þú af heiløgum hædum, híngad ofan leitst til vor, útbýttir gáfum, gjædum, med gódgyrni draup hvert þitt spor, ei þín þver, elskan hreina, æ sem vér meigum reyna; lof sé þér læknir allra meina!

3. Grunnlaust haf alls hins góda, og gjædsku-brunn-ur ertú hreinn, naut og þjáníngar þjóda, þú álítur í mildi eina, margføld þar mest ónaumur, mýskunar þinnar straumur, gjædi oss bar, gledst því madurinn aumur.

4. Eins sem ad einni tídust, ønnur fylgir bára á sjó; eina svo eptir frídust, ønnur náð framkémur þó, þar á

nein þrot ei verða, þegar mein að oss herða, þín gjæðskan hrein, gjörir vort böl að skerða.

5. Þeim sem í þessum heimi, þáðu dvöl fyrir vora tíð, af Drottins gjæðsku djúpstreymi, dryckur veitkist og svölun fríð, við sama brunn sorga í hreggjum, sálar munn enn vér leggjum, náðin kunn nægir svo hvertveggjum.

6. Þessi uppspretta ei þrýtur, fyrir þurð og skort ei undirgár, af sömu blessan framflýtur, forn á meðan heimur stár, gösgum þann Guð sem veitir, og glæpugann svo við breytir, aumann mann, ýms þá mæða þreytir.

7. Sumarsins lystilega, að lokum runnin nú er tíð, ó minn Guð! alla vega, oss þín hjúkaði náðin blíð; himin, jörð, hafið víða, hreifði vörd aumra lýða, engin spörð oss var gjösin fríða.

8. Blessan, heilsa, faung, friður, farsæld og ró í hverri stétt, af hæðum flaut híngað niður, hefur, þú Drottinn! líka sett, verndar-skjöld voru landi, vondsku-öld, svo ei grandi, synda-gjöld síst á oss leggjandi.

9. Þetta allt höfum þeigið, af þinni náð með engri rýrð, þar fyrir þér nú segi, þackargjörð, heiður, lof og dýrð, himin blár, haudur, geimar, hvað þar stár og inni sveimar, allar krár, efri og neðri heimar.

10. Þó að nú hafi þanninn, þyrmt oss og hjúkað gjæðskan blíð; ó Drottinn! margann manninn, má finna liðna Sumar-tíð, þíðast géð, þitt sem styggði, og þúngum með glæpum hryggði, sviptast réð sálar öll heilbrygði.

11. Frá hvirfli og allt að yljum, örkumslin djúpu berum því, æ Faðir! vér þó viljum, við þig friðmælast enn á ný, svo lækníng þýð, léníst sárum, linni stríð, þurði tárum; nær þinn lýð, náðar-dropum klárum.

12. Fyrir Frelsarans sárin, fyrir hans beiskn sálar neyð, fyrir hans feldu tárin, fyrir hans hlýðni blóð og

deyd, brot margføld fyrirgéfdu, ferleg gjøld øll upphefdu, svo hitti ei køld hefnd, en nád um vefdu.

13. Himins vedurátt væga, á Vetri gék oss nú byrjudum, hér med tíd heppna og þæga, hamla ólucku tilfellum, eydist tjón elds ónauma, eins um frón vatnastrauma; þín hædst umsjón, hjúpi oss vesla og auma.

14. Stýr frá storm-vinda megni, stórsóttum, dýrtíd, flug-eldum, hagli og háska regni, hamla skadsømum ódvedrum, makt brjót hér myrkra anda, svo megni ei þver, neinu granda, samt af ver slisum allra handa.

15. Heyrdu qvein, horfdu á tárin, hjartkjært Fadir! barna þín, græd vor samvitsku sárin, sálar og hjarta mýktu pín, þeim sorgir fann, fø₃nud tærdu, freistadann endurnærdu, viltann mann á veginn rétta færdu.

16. Krossþjáda kristna alla, sem kremur einhver sorg eda neyd, og veinandi um vægd þrákalla, vængi myskunar yfirbreid, þín hjarta dygd, hjartans Fadir, hrindi stygd, svo ei skadi, en sjálfs þíns trygd séum innsveipadir.

17. Jesú sem daudann deyddir, med dauda þínum saklausum, en aptur líf inn leiddir, líknadu øllum deyendum, lífs vid mál, léttist mæda, líssins skál þinna æda, dreip á sál, og dýrdar flyt til hæda.

18. Eptir aflidinn Vetur, útlegdar mædu í veröld hér, géfdú oss gledi adsetur, Gud í himneskri dýrd hjá þér, hvar þurda sjest sælu aunga, síst reynist mædan þraunga, en umum best, vid eilífa Zions saunga, Amen.

## Sumar Heilsan,

qvedin af Prófastinum Sr. Hallgrími E. s.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Salve blóma sumarid rétta, salve dagurinn hlír og vær,

salve ljóma sólin metta, salve hagurinn nýr og kjær, salve fugla saungur hýr, salve jardar gródur dýr, salve hlýda sælu mindin, salve þída kjælu lindin.

2. Júnstu dygda akurlendi, ávøxt búinn færi skjótt, verdi stygda vetrar endi, von og trúin nærist fljótt, elskan spretti og audmýktin, og andans rétti blóminn hinn, Það sumarid innra sølni eigi, þó sumarid ytra følna meigi.

3. Drottins mykskun djúpust hylji, drýgdra vorra synda hæd, sandkorn lítid sem ad dylji, sjáfar hassins mesta æd, allar hjadnl áráſir, sem ísinn brádni glód fyrir, ángurs; kjælan øll sú hlýni, eins og sól í heidi skíni.

4. Drottins smurda sumar; sóminn, sívarandi kríni hátt, Kristur styrki kénnidóminn, svo kunni vinna Djøfuls mátt, valdstétt rati veraldlig, vitskuunar þann rétta stig, húsſtjórn bjorg og blessan fái, best hver sinnar skyldu gái.

5 Gyrding vor sé Guds hjálprædi, gródrar døggin Jesú blód, yndis; blærinn, andans gjædi, ordid Drottins lýsi þjód, lækni oss, sárin lausnarans, laugi tárin dreyrug hans, sacramentid sálina nesti, sinn ei holdid vørdinu bresti.

6. Sumarid nádar svo vér høldum, sípríſandi Drottinn Gud, ad dýrdar sumar á efstu øldum, oss veitist med há; føgnud, sumar og vetur sé þér dýrd, sumars og vetrar herrann skírd, þig vetur og sumar vér áføllum, vetur og sumar líkna oss øllum.

## Sumar Qvedja.

Med sama Lag.

Far vel sumarid fágad blóma, far vel dagurinn hlír og vær, far vel sólin full af ljóma, far vel hagurinn dýr og kjær, far vel saunguriun fugla skír,

far vel jardar gródur nýr, far vel hlýda fagra mindin, far vel þída vatna-lindin.

2. Innſtu dygda akurlendi, ávøxt ſprottinn geymi ſinn, ſumar trygda ei ſé endi, ebli Drottinn kjærleikinn, von og trúin vidhaldiſt, vøkvinn andans margfaldiſt, innra veturinn ei þad ſkérdi, þó ytra veturinn froſtid herdi.

3. Miſtrid ſynda frá oſs færi, fyrirgéfandi áſtar-þeir, ſvo ſem vinda bláſtur bæri, burtu ſký þau ſjáſt ei meir, augum Guds þad allt ſé fjær, ſem auſtrid kémur ei veſtri nær, afmád ſkrift ſem éngium reki, eins og driftin foldu þeki.

4. Drottins ſmurda grói gjædi, ſem grænn Cedrus á vetrar-tíd, kénnidómurinn kiſ eg ſtædi, ſem kjarngód vidſmjørs eikin fríd, ſú veraldlega valdſtétt ſé, ſem vøtnum nærri plantad tré, þó húsſtjórnina þúnginn þjái, þroſka pálmavidarins nái.

5. Vort ſé Drottinn vetrar-nædi, vetrar-ſvølun Jeſú blód, hans verdſkuldan Vetrar-klædi, Vetrar-ljós hans ordin gód, Vetrar-lækning vor hans ſár, Vetrar-laug hans dreyrug tár, Vetrar fæda hans velgjørníngar, Vetrar-ræda hans ſetníngar.

6. Vetrar betrun vorri heitum, á Vetri naudø. kriſtnir menn, í Vetrar ſetrum varlega breytum, Veturinn dauda kémur ſenn, Vetur og ſumar veri oſs hjá, ſá Vetri og ſumri ſtýra má, hánn Vetur og ſumar vér ákøllum, hann Vetur og ſumar likni oſs øllum.



